# Lærdóms Bók
í
evangeliskum kristilegum
Trúarbrøgdum,
handa
Unglingum.



Selst almennt innbundin, 23 skild.



Leirárgørdum vid Leirá, 1805.
Prentud á kostnad Islands konúnglegu Uppfrædingar Stiptunar, af Bókþryckjara Magnúsi Móberg.



## Advaran til Kénnendanna.

1.) Sérhvor meining, hvort heldur hún er í lærdóms- edur ritníngar-greinum, ellegar í athugasemdum og útskiríngum greinanna, á nákvæmlega og skilmerkilega ad útþýdast fyrir barninu, ádur enn þad lærir nockud af þeim utanad.

2.) Tornæmir, sem hvorki hafa efni né tíma til ad læra meira, þurfa ecki nema ad vita vel sjálfar lærdóms- og ritníngar - greinirnar, sem þar standa prentadar hjá.

3.) Kénnendurnir ega ad láta bornin leita ad þeim greinum í Biblíunni,

sem til er vísad, en þó ecki eru prentadar; þar, sem mörg börn eru, ega þeir ad láta þau lesa þær til skiptis, og med stuttum spurníngum útúr, koma þeim í skilníng um meiníngúna.

4.) Sérhvör lærdóms-grein í bókinni er svo skiljanlega samantekin og atridis-ordin prentud med ödru letri, ad hægt er hvörjum einum, ad spyrja útúr þeim. Þess vegna gjördist engin þörf ad prenta spurníngarnar, einkum þar raunin er ólhygnust, ad opt og tídum hafa bædi Kénnendur og lærendur minna þenkt úti sannleikann vegna spurnínganna.





# Sá litli Lúthers Catechismus.

## Þetta eru Tiu Laga-bodord Guds.

### Fyrsta Bodord.

Eg er Drottinn Gud þinn, þú skalt ecki hafa annarlega Gudi fyrir mér.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum, yfir alla hluti fram, Gud ad óttast, hann ad elska og á hann einn ad trúa.

### Annad Bodord.

Þú skalt ecki leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma; þvi Drottinn mun ei halda þann saklausann, sem brúkar hans nafn hégómlega.

Hvad er þad?

Þad er: vèr egum ad óttast og elska Gud. Engum egum vèr íls ad bidja í hans nafni, ecki sverja vid þad, nè fjölkíngi fremja, ecki ljúga nè svíkja; heldur egum vèr Guds nafn ad ákalla í öllum vorum naudsynjum, þad ad tilbidja, lofa þad og því þackir ad gjöra.

## Þridja Bodord.

Minnstú ad helga hvíldar-dagínn Drottins Guds þíns.

Hvad er þad?

Þad er: vèr egum ad óttast og elska Gud. Ad vèr ecki fyrirlítum prèdikunina nè hans ord; heldur egum vèr þad heilagt ad halda, gjarnan heyra þad og læra.

## Fjórda Bodord.

Heidra skalt þú fodur þinn og módur, svo þèr vel vegni, og þú verdir lánglífur á jördunni.

Hvad er þad?

Þad er: vèr egum ad óttast og elska Gud. Ad vèr ecki fyrirlítum vora foreldra, nè þá, sem yfir oss eru bodnir, ecki þá til reidi reitum; heldur þá í heidri hofum,

um, þjónum þeim og hlhdnir séum, elsk-um þá og virding ve tum.

## Fimta Bodord.

### Þú skalt ecki mann deyda.

Hvad er þad?

Þad er: vèr egum ad óttast og elska Gud. Ad vèr ecki meidum hold vors náúnga, eda gjørum honum mein í nockru; heldur egum vèr honum ad bjarga og vidhjálpa, í øllum hans lífs naudsynjum.

## Sjótta Bodord.

### Þú skalt ecki hórdóm drýgja.

Hvad er þad?

Þad er: vèr egum ad óttast og elska Gud. Ad vèr lifum hreinferduglega, bædi í ordum og verkum, og ad hvorr einn elski og í heidri hafi sina ekta-persónu.

## Sjøunda Bodord.

### Þú skalt ecki stela.

Hvad er þad?

Þad er: vèr egum ad óttast og elska Gud. Ad vèr ecki grípum góts edà peninga vors náúnga, eda med følskum kaupeyri eda undirhyggju undir oss drøgum;

 held-

heldur egum vér honum ad hjálpa, svo hans góts og uppeldi ávaxtist og vardveitist.

## Áttunda Bodord.

Þú skalt ecki bera falskann vitnisburd á móti þínum náúnga.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki ránglega ljúgum nockru á vorn náúnga, ecki svikjum, baktölum edur ófrægjum hann í nockru; heldur egum vér hann ad afsaka, allt gott um hann ad tala, og særa alla hluti til betra vegar.

## Níunda Bodord.

Þú skalt ecki girnast hús náúnga þíns.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki med flærd stundum eptir arfi edur fasteign vors náúnga, edur undir ofs dragum med yfirvarpi laga og réttinda; heldur egum vér þar til hjálpa og styrkja, ad hann hafi sitt allt ofkaddad.

Ti-

## Tiunda Bodord.

Þú skalt ecki girnast qvinnu náúnga þíns, ecki hans þjón né þjónustu-qvinnu, ecki uxa né asna, og eckért þad hans er.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki burt-tælum eda lockum frá vorum náúnga hans egin-qvinnu, þjónustu-fólk eda qvikfé; heldur egum vér ad áminna og rádleggja; ad hvorr og einn sé samt og ástundi ad þjóna, þad honum skyldugt er.

Hvad segir Gud af ollum þessum bodordum?

Hann segir svo í 2 Mós b. 20 kapit.: Eg er Drottinn Gud þinn, sterkur vandlætari, vitjandi ránglætis fedranna á sonunum, í þridju og fjórdu ættqv'sl þeirra, sem mig hata, en gjørandi miskunsemi í þúsund lidu þeim, er mig elska, og mín Bodord vardveita.

Hvad er þad?

Þad er: Gud hótar þeim ollum pínu, sem afrækja þessum hans Bodordum; því egum vér ad óttast og hrædast hans straff,

og eckért ad gjøra á móti hans Bodordum; en þeim øllum, sem þessi hans Bodord halda, lofar hann sinni nád, miskun og øllum gódum hlutum; þar fyrir egum vér Gud ad elska, trúa honum og treysta, og eptir hans Bodordum gjarnan ad gjøra.



# Trúar = játningin.

## Fyrsta Grein.

### Af Skøpuninni.

Eg trúi á einn Gud, Fødur almáttugann, Skapara Himins og Jardar.

Hvad er þad?

Þad er; eg trúi ad Gud hafi skapad mig, ásamt øllum ødrum sképnum og ad hann hafi géfid mér ønd og líkama, augu, eyru og alla limi, þar med skyn og skilningar=vit, og ad hann øllu þessu enn nú vid makt heldur. Hér til veitir hann mér

og fyrirſier nóglega, og daglega gêfur hann mêr: klædi og ſkjædi, mat og dryck, hús og heimili, fodur og módur, akur og qvikfé og allt þad, ſem gott er, med ollu því eg medþarf til þeſſa lífs uppheldis. Hann verndar mig og vardveitir frá ollum ſkada og háſka, og ollum íllum hlutum. Allt þetta gott veitir hann mêr af ſinni einſkjærri, fodurlegri, gudlegri gódgirnd og miſkun, án allrar minnar forþênuſtu og verdſkuldunar. Fyrir hvad allt eg á honum lof og þackir ad gjora, honum þjóna og hlydinn ad vera. Þetta eru viſſuleg ſannindi!

## Onnur Grein.

### Af Endurlauſninni.

Eg trúi á Jeſúm Kriſt Son hans, eingétinn Drottinn vorn, hvørr ed gétinn var af heilogum Anda, fæddur af Maríu meyju, píndur undir Pontío Pílató, kroſſfeſtur, deyddur og grafinn; á þridja



degi reis hann upp frá daudum, uppstè hann til himna, situr nú til Guds Fodurs almáttugs hægri handar, og þadan mun hann koma ad dæma lifendur og dauda.

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi, ad Jesús Kristur sé sannur Gud, af fødurnum gétinn fyrir allar aldir, líka sannur madur, fæddur af Maríu meyju; ad hann sé minn Drottinn, sem mig, glatadann og fyridæmdann mann, hefir afrekad, endurleyst og frelsad frá øllum syndum, daudanum og djøfulsins valdi, ecki med gulli eda sylfri, heldur med sínu heilaga, dýrmæta blódi, og med sinni saklausu pínu og dauda, svo ad eg sé hans eginleg eign, lifi undir hans valdi í hans ríki, honum þjóni í eilífu réttlæti, meinleysi og sáluhjálp, líka sem hann er sjálfur af daudanum upprisinn, lifir og ríkir ad eilífu. Þetta eru vissuleg sannindi!

Þrid=

## Þridja Grein.
### Af Helguninni.

Eg trúi á heilagann Anda, og ad sé ein heilög, almennileg, kristileg kirkja, sem er samnenti heilagra, fyrirgéfníng syndanna, holdsins uppríса, og, eptir þetta líf, eilíft líf.

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi, ad eg gæti ecki af siálfs míns eginn krapti edá skilníngi trúad á Jesúm Krist minn Drottinn, eda til hans komist; heldur hefir heilagur Andi mig, med gudspjallanna kénníngu, kallad og upplýst med sínum âstgjöfum, helgad mig og vidhaldid í réttri trú; líka sem hann alla adra kristna menn á jördu, kallar, samansafnar, upplýsir og helgar, og í rettri trú til Jesús Krists vardveitir. Í hvörri kristilegri kirkju, hann nádarsamlega fyrirgéfur mér og öllum trúudum daglega allar syndir, og á efsta degi mun hann uppvekja mig og alla menn af dauda, og géfa mér, med öllum rétt-trúudum, fyrir Jesúm Krist, eilíft líf og sáluhjálp. Þetta eru vissuleg sannindi!



# Drottinnleg Bæn.

Fadir vor, þú sem ert á himnum.

Hvad er þad?

Þad er: Gud vill hér med til-leida oss og locka, ad vér tráa skulum ad hann sè vor réttilegur fadir, og vér hans sannarleg born; svo vér þess heldur med fullu tránadar-trausti megum hann bidja, svo sem góð born bidja sinn elskulegann fødur.

## Fyrsta Bæn.

Helgist þitt Nafn.

Hvad er þad?

Þad er: Guds nafn er sannarlega í siálfu sér heilagt, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari bæn, ad þad einnig helgist hér med oss.

Hvornig skedur þad?

Nær Guds ord kenniſt réttilega og hreinlega, og vér eptir því lifum heilaglega, svo sem Guds bornum hæfir. Þar til hjálpi oss vor elskulegi Fadir á himnum!

um! en hvorr, sem odruvísi kénnir edur lifir enn Guds ord býdur, sá vanhelgar Guds Nafn á medal vor. Þar frá vardveiti oss vor elskulegi himneski Fadir!

## Önnur Bæn.

Til komi þitt ríki.

Hvad er þad?

Þad er: Guds ríki kémur ad sönnu án vorrar bænar af sjálfu sér til; en vér bidjum í þessari bæn, ad þad einnig komi til vor.

Hvornig skedur þad?

Nær Gud géfur oss sinn heilaga Anda, sá oss veitir þá nád, ad vér trúum hans heilaga ordi, lifum heilaglega hér stundlega, en annars heims eilíflega.

## Þridja Bæn.

Verdi þinn vilji, svo á jordu, sem á himni.

Hvad er þad?

Þad er: Guds godur og nádugur vilji verdur á himnum, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari bæn, ad hans vilji verdi hér á medal vor.

Hvornig skeður það?

Nær Guð ónýtir og hindrar öll ill ráð og vondann vilja þeirra, sem því valda, að Guðs Nafn vanhelgast og hans ríki náir ecki til vor að koma, sem eru: djöfulinn, heimurinn og vor holdlegur vilji; heldur styrkir hann oss og stöðuga gjörir, í sínum orðum og í trúnni, allt til vorra æfiloka. Þetta er hans miskunsamur og góður vilji.

## Fjórða Bæn.

### Géf oss í dag vort daglegt brauð.

Hvað er það?

Það er: Guð géfur að sönnu daglegt brauð, jafnvel vondum mönnum, þó vér biðjum ecki; en vér biðjum í þessari bæn, að hann láti oss vort daglegt brauð viður-kénna, og með þacklæti til vor meðtaka.

Hvað kallast daglegt brauð?

Það kallast allt það, sem nauðsynlegt er til þessarar lífs bjargar, sem er: matur og dryckur, klæði og skjæði, hús og heimili, töður og engjar, qvikfénaður, góts og peníngaar, góð ekta-persóna hlýðin börn, dyggt þjónustu-fólk, trúir og frómir Yfirmenn, góð almúgans stjórn, hag-

hagstæd vedurátt, fridur, heilbrygdi, sidsemi, heidur, gódir vinir, trúfastir nágrannar, og allt annad þessu likt.

## Fimta Bæn.

Fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldu-nautum.

Hvad er þad?

Þad er: vér bidjum í þessari bæn, ad Fadir vor himneskur vilji ecki álíta vorar syndir, svo hann, fyrir þeirra skuld, vilji ecki veita oss vora bæn (því vér erum allra þeirra hluta ómaklegir, sem vér hann umbidjum, og hofum ecki þad verdskuldad); heldur ad hann vilji oss þad allt géfa, af sinni eginlegu nád; því daglega syndgum vér, og forþénum ecki annad enn straff; svo viljum vér og einnig þarámót fyrirgéfa af hjarta þeim, sem oss á móti brjóta, og gjora þeim gott, sem vid oss misgjora.

## Sjótta Bæn.

Eigi innleid þú oss í freistni.

Hvad er þad?

Þad er: Gud freistar ad sonnu einckis manns; en vér bidjum í þessari bæn: ad hann

hann vilji vernda oss og vardveita frá andskotans, heimsins og holdsins vélum, svo vér hröpum ecki fyrir þeirra tilteigíng í vantrú, örvæntíng, edur adrar stór-syndir og löstu, og þó vér freistumst af öllu þessu, þá láti hann oss um sídir yfirvinna og sigrinum halda.

## Sjøunda Bæn.

### Heldur frelsa oss frá illu.

Hvad er það?

Það er: hér bidjum vér alls í einu í þessari bæn, ad Fadir vor himneskur frelsi oss frá öllu illu til lífs og sálar, farsældar og heidurs; og ad sídustu, þá vor dauda-stund er komin, gefi hann oss gódann afgáng, og taki oss miskunsamlega til sín úr þessum eymdar-dal, inn í himnaríki. Amen.

Hvad er það?

Það er: ad eg skal vera fullviss, ad þessar vorar bænir séu vorum himneska Födur þacknæmilegar, og af honum heyrdar; því hann hefir sjálfur skipad, ad vér skyldum med þessum hætti bidja, og hefir lofad, ad hann vildi oss bænheyra. Amen! Amen! Það er: já, sannarlega, það skal svo vera.

Skírn-



# Skírnar Sakramentid.

## Fyrsta Spurníng.

Hvad er Skírn?

Skírnin er ecki einsamalt vatn, helldur er hún þad vatn, sem saman er reirt og bundid med Guds bodordi, og med Guds ordi samteingt.

Hvørt er þad Guds ord?

Þad vor Herra Jesús Kristur sagdi hjá Matthæo í 28 kapítula: farid og gjørid alls slags þjódir ad minum lærisveinum, og skírid þær til nafns Fødurs og Sonar og heilags Anda.

## Onnur Spurníng.

Hvad útvegar oss og veitir Skírnin?

Hún útvegar oss og veitir fyrirgéfníngu syndanna, frelsar oss frá daudadum og djoflinum, og géfur þeim øllum eilífa sáluhjálp, sem trúa því, sem ordin Guds og fyrirheitin lofa.

Hvør eru þau Guds ord og Fyrirheit?

Þau vor Herra Jesús Kristur segir hjá Markó í 16 kapítula: hvørr sem

trúir

trúir og verdur skírdur, sá mun hólpinn verda, en hvørr sem ecki trúir, sá mun fordæmast.

## Þridja Spurníng.

Hvørnig má vatnid orka svo veglegra hluta?

Vatnid má aldrei slíks orka, heldur veitir þad Guds ord (hvørt ad er í og med vatninu) og trúin, hvør ad slíkum Guds ordum, í vatninu, trúir; því fyrir utan Guds ord, er vatnid einsamalt vatn, en engin skírn; en þegar Guds ord samlagast vatninu, þá er þad skírn. Þad er nádarfullt lífsins vatn, og endurgétníngar laug í heilögum Anda, svo sem Páll Postuli seair til Titum í 3 kap.: eptir sinni miskunsemi hefir Gud oss hólpna giört, med endurgétníngarlauginni og endurnýjúnginni, sem skédur af heilögum Anda, hvørjum hann hefir nóglega úthellt yfir oss, fyrir Jesúm Krist vorn lausnara, svo vér, réttlættir fyrir hans nád, verdum erfíngjar eilífs lífs eptir voninni. Þessi ord eru sönn og trúanleg.

Fjórda

## Fjórda Spurníng.

Hvad merkir þvílík vatns-skírn?

Hún merkir þad: ad sá hinn gamli Adam í oss, á daglega ad dreckjast og deydast, fyrir ydrun og yfirbót, med öllum syndum og vondum girndum, og sídan daglega framkoma og upp aptur rísa nýr madur, sá ed lifa skal í réttlæti og heilagleika fyrir Gudi æfinlega.

Hvar stendur þad skrifad?

Páll Postuli segir í sendibréfinu til Rómverja, 6 kap.: svo erum vér med Kristi greptradir í skírninni til daudans, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá daudum, fyrir dýrd Födursins, svo egum vér ad gánga í nýju liferni.



# Altaris Sakramentid.

## Fyrsta Spurníng.

Hvad er Sakrament Altarisins?

Altaris sakramentid er sannarlegt hold og blód Drottins vors Jesú Krists,

und-



undir braudi og víni, af honum sjálfum, Jesú Kristi, innsett, oss kristnum mönnum ad eta og drecka.

Hvar stendur þad skrifad?

Svo skrifa þeir heilogu Gudspjallamenn: n. Matthæus, Markús, Lúkas og Postulinn Páll:

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjordi þackir, og braut þad, og gaf sínum lærisveinum og sagdi: takid og etid, þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn. Gjorid þad í mína minníngu!

Sömuleidis eptir qvöldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjordi þackir gaf þeim hann, og sagdi: dreckid allir hér af, þetta er kaleikur

leikur hins nýja Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur útheslist, til fyrirgéfníngar syndanna. Gjørid þetta, svo opt, sem þér þad dreckid, í mína minníngu!

## Onnur Spurníng.

Hvad stodar oss med svoddann hætti ad eta og drecka hjer af?

Þad ávísa mér þessi ordin, sem hér standa fyrir ydur gésst og úthellist, til fyrirgéfníngar syndanna. Þvi ad sonnu veitist oss og gésst fyrir þessi ordin í sakramentinu, syndanna fyrirgéfníng, eilíst líf og sáluhjálp; þvi hvar syndanna fyrirgéfníng er, þar er einnig lífid og sáluhjálpin.

## Þridja Spurníng.

Hvernig kann líkamleg bergíng ad verka svo mikla hluti?

Bergíng brauds og víns verkar þad í engann máta, heldur þau ordin, sem hér standa: fyrir ydur gésst og úthellist,

til

til fyrirgéfníngar syndanna. Hvor ord ad eru hjá líkamlegri bergíngu, svo sem hofud-stycki í þessu sakramenti. Hvorr, sem þessum ordum trúir, sá odlast allt þad, sem þau innihalda og uppá hljóda, sem er: syndanna fyrirgéfning.

## Fjórda Spurníng.

Hvorr neytir þessa Sakramentis maklega?

Ad fasta og sig líkamlega þar til at búa, er ad sonnu gód ytri sidsemi; en sá er sannarlega maklegur og vel skickadur, sem trúna hefir á þessum ordum: fyrir ydur géfst og úthellist til fyrirgéfningar syndanna. En hvorr, sem ecki trúir þessum ordum og efar þau, sá er ómaklegur, þvíad þetta ordid: fyrir ydur, krefur fullkomlegrar trúar í hjartanu.



Fyrst

# Fyrsti Kapituli.
## Um Gud og hans Eginlegleika.

### 1. Hvorninn vér fáum þeckíngu um Gud.

§. 1. Ofs mønnunum rídur mjøg mikid á, ad vér lærum ad þeckja Gud; því annars gætum vér ecki skilid, hvørninn heimurinn er ordinn til, vér vissum þá ecki heldur, hvors vér mættum vænta um vora hagi eptir daudann, og hefdum enga óbrygdula hjálp ad reida oss uppá í vorum mótgánai.

Merk: Pad eru køllud Trúarbrøgd, ad þeckja Gud og hans vilja, og med hvørju móti vjer egum ad heidra hann og hlýda honum.

§ 2. Undir nafninu Heimur skilst almennilega bædi himin og jørd med øllu því, sem í þeim er.

Merk: a) Auk sólarinnar og túnglsins siáum vjer á himninum mikinn fielda af stjørnum. Medal þeirra eru nockrar, sem kallast

A Plán-

Plánetur, allteins krínglóttir hnettir, eins og vor jörd, og er ecki ólíklegt, ad í þeim búi margs:conar lifandi skjepnur. En þær eginlegu stjörnur eru sólir eins og sú, sem skín nærst oss, og upplýsa med sama hætti hnetti þá, sem þeim eru nálægastir. Túnglid er hnöttur eins og jördin, sem fær, eins og hún, ljós sitt af sólunni.

b) Á jördunni teljast hjer um tuttugu og fimm þúsundir lifandi skepna af ýmsu kyni, auk mannanna, sem eru tals þúsund milliónir (en hvör ein millión er sama og þúsundfinnum þúsund), adrar lifandi skjepnur, sem til adgreiníngar frá mönnunum kallast skynlausar edur málleysar, skiptast í dýr, fugla, fiska, orma, skorqvikindi, og þær skjepnur, sem lifa bædi í vatni og á landi. Serhvört af kynferdum þessum inniheldur margskonar tegundir, sem eru hvör annari ólíkar.

§. 3. a) Hvörr, sem vill gæta skynseminnar, á hægt med ad þeckja, ad heimurinn hefir ecki gétad ordid til af sjálfum sér, heldur enn hús nockud edur þorp hefi gétad byggt sig sjálft; því enginn sá hlutur er til, sem ecki hefir haft sína orsök, af hvörri hann er kominn.

b) Heimurinn hefir ecki gétad verid til frá eilífd, því vér sjáum, ad allir hlutir eru umbreytanlegir, og bædi menn

og sképnur, ásamt ødru fleiru, hafa upphaf og endir.

§. 4. Frá eilífd hlytur ad hafa verid ein ædsta Vera, sem skapad hefir heiminn, edur rádid fyrir upptokum hans og nidur-rodun. Þessi vera kallast Gud, og þessi Gud hlytur ad vera sá allra vísasti, máttugasti og gædskuríkasti, þvi þeim morgu og marghátttudu hlutum, sem eru í heiminum, er svo vísdómslega niðurradad, og allir eru þeir mjøg nytsamlegir.

§. 5. Gud þeckist ljósast af sínu ordi, hvort lesa má í þeirri heilogu Ritníngu, sem kallast Biblía.

§. 6. Þad er víst, ad þann Guds vilja, sem manneskjurnar áhrærir, er ad finna í Bibliunni, og þess vegna kallast hún Guds ord, því hún kénnir oss fullkomlega og augljóslega allt þad, sem syndug manneskja þarf ad vita sér til endurbótar, huggunar og sannrar velferdar, bædi í þessu og tilkomandi lífi.

§. 7. Gud hefir sjálfur stadfest sitt ord, med því, ad hann hefir aéß þeim monnum, sem þad hafa ritad, bædi speki,

til ad auglýsa þá hluti, sem enginn mádur gat vitad af sjálfum sér, og líka krapta til ad framqvæma þau verk, sem enginn hefdi gétad gjort med neinslags náttúrlegum medolum.

Merk: a) Í heilagri ritníngu finnast þeir spádómar, sem fyrisegja markverda tilburdi, er enginn manneskja gat á þeim tímum fyrifram séd, og sem þó laungu þar eptir eru í ýtrasta máta uppfylltir. Gud einn, sem er alvitur, gat veitt þessum heilögu mönnum þeckíngu um slíka atburdi. Esaj. 21, 1-10. 44, 21-28. Jerem. 31, 31-40. 50, 1-46. Dan. 9, 20-27. Matth. 24, 1-28.

b) Í heilagri ritníngu er talad um kraptaverk, sem eru slík yfirnártúrleg verk, ad þau útheimta guddómlegann krapt, þar þad ecki var mögulegt ad gjora þau á þvílíkann hátt med náttúrunnar kroptum. Gud, sem er almáttugur, hefir einúngis brúkad þá heilögu menn til ad gjora þvílík dásemdar-verk. 2 Mós. b. 14, 21-30. Matth. 8, 7-15. Jóh. 2, 1-11. 6, 1-15. 9, 1-38. 11, 17-53. Post. G. b. 3, 2-8.

§. 8. a) Þeir menn, sem undir Guds stjórnun og med hans adstod hafa skrifad þá heilögu Ritníngu, kallast, yfir höfud ad tala, Spámenn, Gudspjallamenn og Postular.

b) Spámennirnir, Gudspjallamennirnir og Postularnir, vóru útvaldir

af

af Gudi, til ad vera hans sendibodar medal manneskjanna, hvorium þeir áttu ad kunngjora hans vilja, og framqvæma hans ásetníng á þeim stad og tíma, sem hans speki áleit ad vera þénanlegast.

§. 9. a) Spámennirnir hafa skrifad þann hlut Ritníngarinnar, sem kallast gamla Testamentid, ádur enn Kristur fæddist.

b) Gamla Testamentid inniheldur ýmislegar bækur, í hvorium Guds vilji var auglýstur Gydíngum, þeirri þjód, sem Messías, heimsins Lausnari, átti ega ad reka kyn sitt til; en þessar bækur eru enn þá í morgum greinum nytsamlegar handa oss, og þénanlegar til lærdóms, huggunar og vidvorunar.

Merk a) Bækur gamla Testamentisins eru eptirfylgjandi: fimm bækur Mósis, Jósúæ bók, Dómara bókin, Ruths bók, fyrri og sídari Samúelis bók, fyrri og sídari Kónganna bók, fyrri og sídari Kroníku bók, Esdra bók, Nehemiæ bók, Esters bók, Jobs bók, Davíds Psaltari, Salómons Ordsqvidir, Predikarans bók, og Lofqvædid Fjórir stærri Spámennirnir, Esajas, Jeremias, med hans Harmagráti, Ezeckiel, Daniel. Tólf smærri Spámennirnir, Hóseas, Jóel, Amos, Obadías, Jónas, Micka, Nahúm, Habacuk, Zephonias, Haggaí, Zacharias, Malachías.

b) Kristur hefir stadfest, ad bækur gamla Testamentisins seu af Gudi, Lúc. 24, 25. 27. 44. Og á Krists tídum vóru allar þessar bækur samansafnadar í gamla testamentinu, sem enn eru þar.

§. 10. a) Gudspjalla-mennirnir og Postularnir hafa skrifad þann hluta Ritníngarinnar, sem kallast nýja Testamentid, eptir ad Kristur var fæddur.

b) Nýja Testamentid inniheldur í ómislegum bókum allt þad, sem Gud hefir viljad auglióst giora fyrir öllum heiminum, um syndaranna endurlausn vegna Krists, trúna, Guds ótta og dygdina, sem útheimtast til sáluhjálpar.

Merk: a) Nýja Testamentisins bækur eru eptirfylgiandi:. fiøgur Gudspiøll, nefnilega: Matthæí, Marcí, Lúcæ og Jóhannis; Postulanna Giørnínga bók; fiórtán Páls Sendibref, sem eru: eitt til Rómverja, tvø til innbyggjaranna í Korintu, eitt til Galata, eitt til Epheßus manna, eitt til innbyggiaranna í Philippis, eitt til þeirra í Kólossaborg, tvø til innbyggiaranna í Tessaloníku, tvø til Thimótheum, eitt til Titum, eitt til Philemon, eitt til enna Ebreska; Jakobs pistill, fyrra og sídara bref Peturs, fyrsta, annad og þridja bref Jóhannis, Júdasar, bref og opinberingar Jóhannis.

b)

b) Kristur hefir med sínum kraptaverkum sannad, ad hann væri sendur af Gudi, og med sama hætti er trúverdugleiki Gudspjallamannanna og Postulanna stadfestur, Jóh. 10, 37. 38. 14, 10. 11. Post. G. 6 3, 1, 16. Skrif hinna eldstu kristinna lærifedra innihalda þá vitnisburdi, sem gjöra augljóst ad Gudspjallamennirnir og Postularnir hafi, skrifad þær nýja Testamentisins bækur, sem þeim eru eignadar.

§. 11. **Eptir sérlegasta inntakinu skiptist Guds ord í Løgmálid og Evangelíum.**

*a*) Í **Løgmálinu** sýnir Gud oss þad illa, sem vér egum ad fordast, og þad góda, sem vér egum ad ástunda, þad leidir oss einnig fyrir sjónir, straff fyrir hid illa til vidvörunar, og umbun fyrir hid góda til upporfunar.

*b*) **Evangelíum** inniheldur Guds loford um syndanna fyrirgéfníngu og sáluhjálp vegna Jesú Krists, hvorr ed endurleysti heiminn med sinni pínu og dauda; auk þessa kennir þad oss, eptir hvorri rod og reglu, og med hvørju móti vér gétum ordid hluttakandi í fyrirgéfníngu syndanna, og þeirri sáluhjálp, sem K..stur hefir oss útvegad.

Merk: Í fyrsta parti Frædanna ler talad um lögmálid, sem inniheldur Guds tíu bodord. Én Evangelíum er í fjórum sídari pörtunum, sem innihalda þrjár greinir trúarinnar, sjo bænir í Fadir vor, ásamt med skírnarog altarisins-sakramentum.

## II. Hvad Ritníngin kénnir oss um Gud, yfir höfud ad tala.

§. 1. Heimsins skapari er sá einasti sanni Gud, og enginn nema hann.

Esaj. 45, 18. Svo sagdi Drottinn, sá ed himininn hefir skapad, sá Gud, sem jördina hefir tilbúid: Eg em Drottinn, og enginn annar Gud er til nema eg.

1 Cor 8, 4. Vér vitum, ad skurdgod heidíngjanna eru eckért, og engin annar Gud er til nema sá eini.

Merk: a) Heidingjarnir dýrkudu marga hjágudi, og leitudu stundum til eins, stundum til annars, en gátu samt ecki vitad, til hvers af þeim þeir hellst skyldu snúa sér, med vissustu von um hjálp og adstod.

b) Vjer höfum orsök til ad álita sjálfa oss lángtum sælli, þar vjer þeckjum sannann Gud, og vitum, ad hann er einn einasti, þar fyrir leitum vjer hælis hjá honum einum, og setjum

vort

vort trausi og athvarf til hans í öllum vorum naudsynjum.

§ 2. Ritníngin kénnir oss ad þeckja þann einasta sanna Gud, sem Fødur, Son og heilagann Anda, og til-einkar bædi Fodur, Syni og heilogum Anda þá einu og sømu guddómlegu veru, í hvorri þeir eru óadgreinanlega sameinadir hvorr med odrum, med þeim hætti, sem vér fáum ecki skilid.

Matth. 28, 19 Jesús býdur sínum Lærisveinum: farid og gjørid allslags þjódir ad mínum lærisveinum, og skírid þær til nafns Fødursins og Sonarins og þess heilaga Anda.

Jóh. 15, 26. Jesús, svo sem eingétinn Sonur Fodursins, segir: en þá ed sá huggarinn kémur hvørn eg mun senda ydur frá Fødurnum, sá sannleiksins Andi, sem af Fødurnum framgengur, hann mun vitna um mig. 2 Cor. 13, 13.

Merk: Þad er ordid ad venju medal kristinna manna, ad kalla Gud þrennann edur Þríeinann, til ad sýna þar med, ad Fadir, Sonur og Heilagur Andi hafi einn og sama allra-hærsta Guddóm sameginnlega hvorr med ødrum. Jóh. 10, 30. 16, 15. Matth. 3, 16. 17. Jóh. 14, 16.

§. 3. Fadir, Sonur og heilagur Andi eru jafnt hlut-takandi í þeirri sømu eilífd, mætti, gædsku og speki, þeir hafa eina og sømu sameiginlega dýrd.

Jóh. 5, 19-23. Jesús segir: hvad hellst Fadirinn gjørir, þad sama gjørir Sonurinn eins, því svo sem Fadirinn uppvekur dauda og gjørir lifandi, svo lífgar og Sonurinn allteins, hvørja sem hann vill, og ad allir skuli heidra Soninn eins og þeir heidra Fødurinn. Líka svo játar sjálfur Jesús, Jóh. 17, 5. ad hann hafi verid í dýrd hjá Fødurnum, ádur enn heimurinn var til. Jóh. 1, 1. 2. 3. 14. Róm. 9, 5. Ebr. 1, 3.

1 Cor. 2, 10. 11. Postulinn Páll segir um heilagann Anda: Gud hefir látid sinn Anda opinbera oss sín vís-dómsfullu ráð, þvi Andinn ransakar alla hluti, og jafnvel Guds leynda ráð. En hvør manneskjanna er sú, er viti hvad í manninum er, nema mannsins andi, sem í honum er? svo líka veit enginn hvad í Gudi er, nema Guds andi.

Med líkum hætti sýnir og Postulinn, ad þad hafi verid sá heilagi Andi, sem útdeildi yfirnáttúrlegum nádar-gáfum í hinni fyrstu kristni, hvar á medal hann og svo telur makt til ad gjøra kraptaverk, og sídan segir hann: 1 Cor. 12. 4-11. en allt þetta verkar krøptuglega sá eini og sami andi er útskiptir sérhvørjum útaf fyrir sig, eptir því, sem hann vill, Post. G. b. 5, 3. 4; 1 Cor. 3, 16.

Merk: a) Þad er sannarleg og mikilvæg huggan fyrir oss, ad vjer vitum, ad Sonurinn Jesús Kristur, sem hefir kjennt oss hvørju vjer egum ad trúa, og endurleyst oss med sinni pínu og dauda, er sannur Gud ásamt med Fødurnum, því vegna þess kunnum vjer med fullri sannfæríngu, ad reida oss uppá hann, og fylgja honum í øllu med stadføstu trúnadar-trausti, líka og án efablendni tilbidja hann.

b) Oss er þad mikilsverdt, ad vjer vitum, ad sá heilagi Andi, sem med Guds ordi verkar til vorrar upplýsíngar og endurbótar, er sannur Gud ásamt med Fødurnum og Syninum; því þess vegna erum vjer nú fullvissir um, ad vor betran er møguleg, ef vjer færum oss Guds ord rettilega til nota, og enginn vantrú eda efasemi getur haldid oss frá ad tilbidja heilagann Anda med sama trúnadar-trausti, sem Fødurinn og Soninn.

### III. Hvad Ritníngin kénnir oss um Guds veru og eginlegleika.

§. 1. Gud er Andi, edur ósýnileg vera, sem hefir ad sonnu frjálsræði og skynsemi, en engann líkama edur limu, þess vegna gétum vér ecki séd hann med líkamlegum augum, ecki heldur útmálad hann med neinni mind.

Jó. 4, 24. Gud er Andi, því ega þeir, sem tilbidja hann, ad gjøra þad med réttum anda. 1 Tím. 1, 17.

Merk: Gud dýrkast og vegsamast best med hreinum þanckum og rádvøndum lifnadi, þ. e. þesskonar dýrkan á best vid þann Gud, sem er andi.

§. 2. Gud er eilífur og hefir hvorki upphaf né endir. Hann er ætíd óumbreytanlegur, og verdur jafnan hinn sami.

Psálm. 90, 2 Adur enn fjøllin vóru til, og þú tilbjóst jørdina, ert þú Gud, og þad frá eilífd til eilífdar. Psálm. 102, 27. 28.

Jac. 1. 17. Hjá Fødur ljósanna er engin umbreyting, né umbreytingar skuggi.

Merk: Gud, sem er eilífur, óumbreytanlegur, getur þess vegna gjørt þá eilíflega sæla, sem elska hann og hlýda honum. Hans makt

þar til rienar aldrei, ecki heldur umbreytir hann sínum ásetníngi og loforðum.

§. 3. Gud er almáttugur og gétur gjört allt hvad hann vill, án ómaks edur fyrirhafnar, en hann gjörir eckért annad enn þad, sem er vísdómsfullt og gott, því hann vill eckért nema þad einúngis.

Psálm. 115, 3. Vor Gud er í himninum, hann gjörir allt hvad honum gott þýkir. Psálm. 135, 6.

Jér. 32, 17=19. O Drottinn! Drottinn! sjá! þú gjördir himin og jörd med þínum mikla krapti! enginn hlutur mistekst fyrir þér, þú hinn mikli og voldugi Gud, mikill í rádum og mektugur í athöfnum.

Merk: Vier megum óhultir treysta á hjálp og verndan þess almáttuga Guds, í öllum vorum rettilegum athöfnum, því hann vantar hvörki veldi nie krapta til ad vernda oss. En hann er líka máttugur til ad straffa þá ad maklegleikum, sem eru honum óhlýdnir.

§. 4. Gud er alvís, og veit allt í einu bædi þad, sem skéd hefir, þad, sem nú skédur og þad, sem á allri ókominni tíd mun ské. Vorir heimugleguſtu þánkar eru ecki huldir fyrir honum.

1 Jóh. 3, 20. Gud þeckir alla hluti.

Psálm. 139, 1 – 3. Drottinn! þú rannsakar og þeckir mig. Þú skynjar minar hugrenningar álengdar. Þú sjer glögla allar mínar athafnir.

Merk: Pad væri mesta heimska, ad ætla ser ad hræsna fyrir Gudi, sem veit allt, og verdur ecki á tálar dreginn med útvortis yfirhylmingu. Hann veit, hvort heldur er, hvad íllt eda gott vjer hugsum, tölum eda gjörum, jafnvel þó engin manneskja verdi nockurntíma áskynja þar um.

§. 5. Gud er alvitur, og hefir ætíd þann besta tilgáng í sínum ásetníngi, og líka velur jafnan bestu medöl til ad koma honum fram.

Psálm. 104, 24. Drottinn! hvörsu mörg eru þín verk: þú gjördir þau öll med vísdómi. Job. 12, 13.

Merk: Vjer megum óhult trúa því, ad hinn alvitri Gud gjörir eckert án þess þad se nytsamlegt, og ad allt hvad fram vid oss kjemur, eptir hans vilja, horfir oss til gagns og góda.

§. 6. Gud er allstadar nálægur og verkar med sínum krapti allstadar í öllum hlutum. Hann er hvorgi fjarlægur sínum skepnum.

Psálm.

Psálm. 139, 7. 8. Hvört skal eg fara
frá þínum Anda, Drottinn! hvert
get eg flúid, svo þú sjáir mig ei? þó eg
færi upp í himininn, þá ertú þar, og
þó eg byggi mér legu-rúm í undirdjúp-
inu, þá ertú einnig þar, Jer. 23, 24.

Merk: Hinn gudhræddi má vera med
gódu gedi í øllum sínum mó:gángi, því
Drottinn yfirgefur hann aldrei, heldur vard-
veitir hann. En sá ógudhræddi hefir or-
sök til ad skelfast, jafnvel í leynilegustu
fylsnum, því hann gietur hvørgi umflúid Drott-
inn, sinn dómara.

§. 7. Gud er gódur, og audsýnir
sínum skepudu sképnum svo margar vel-
gjordir, sem hvor þeirra gétur í méti
tekid; eptir þeirra edli, lífernis máta,
edur útvortis ásigkomulagi.

Psálm. 145, 9. Drottinn er øllum
gódur, og hann miskunar sig yfir
øll sín verk.

Post. G. 14. 17. Gud hefir ecki
látid sjálfann sig vera án vitnisburd-
ar, þar hann veitti oss mikid gott,
og gaf oss døgg af himni og frjós-
samar árs tidir.

Merk: Oss byrjar med sannarlegu þack-
læti, ad vidurkienna eins þær smærri, sem hin-
ar stærri Guds gáfur og aldrei gleyma, fyrir,
hann

hann muni sinja oss þess, sem hann sier ad oss er þienanlegt.

§. 8. Gud er miskunsamur, og fús til ad veita oss hugsvølun í vorum hørmúngum, og frelsa oss frá þeim á þeirri tíd, og med þeim hætti, sem hann sier oss hagqvæmast, allt eptir því, sem vor velferd útkrefur.

Psálm. 103, 13. Eins og fadirinn er børnunum líknsamur, eins er Drottinn miskunsamur þeim, er hann óttast 2 Cor. 1, 3.

Merk: J øllum vorum mótgángi megum vjer med von og trausti leita hælis hjá miskunsømum Gudi, og hvørki reida oss uppá vorn eginn vísdóm nje mannanna adstod, sem opt kann ad bregdast.

§. 9. Gud er heilagur, sem ætíd elskar þad góda, en hefir stærstu misþóknun á øllu því, sem íllt er.

Psálm. 5, 5. Drottinn! þú ert ecki sá Gud, hvørjum ógudlegt athæfi líkar. Hvørr, sem er vondur, fær ecki ad vera hjá þér.

1 Pét. 1, 15. Eins og sá er heilagur, sem ydur hefir kallad, svo verid þér og einnig heilagir í øllu ydar dagfari.

Merk: Vjer egum med varkárni ad fordast allt, sem illt er, því það er Gudi á móti. En vjer egum ad ástunda samann Guds ótta, ef vjer viljum ad honum líki vid oss, og hann se oss jafnan nádugur.

§. 10. Gud er rèttlátur, og engum ríkr eptir, ad lifad sè eptir hans bodordum, hvor ad öllu leiti horfa til vorrar nytsemdar. Þe's vegna vill hann umbuna einasta þeim, sem hlýda honum, en straffa þá, sem honum eru óhlýdnir.

2 Mós. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn! þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt straff fyrir fedranna ránglæti koma fram á børnunum í þridja og fjórda lid, það er ad segja, á þeim, sem mig hata. Eg er líka sá, sem audsýni miskunsemi í þúsund lidu á þeim, sem mig elska, og vid þá, sem vardveita mín bodord.

Róm. 2, 9. Gud mun gjalda einum og sèrhverjum eptir hans verkum.

Merk; a) Það er mikil heimska, ad hugsa Gud muni sjá ígegnum fíngur vid oss, hvørsu lengi, sem vjer áfram høldum í syndunum, því hans rjettlæti útheimtir, ad hann straffi þad vonda ødrum til skelfingar og vidvørunar, svo ad manneskjurnar leidist ecki til lasta og ódygda af vondra Eptirdæmum.

b)

b) Med því Gudi sýnist ecki þienanlegt, ad straffa alltíd, edur launa eptir serhvørs verdugleikum í þessu lífi, þá dregur hann opt hvørttveggja undan til þess í ødru lífi, hvar bædi sá óguðlegi, og líka hinn gudhræddi úttaka, hvørr uppá sinn máta, sín verka-laun.

§. 11. Gud er sannordur, og dregur oss aldrei á tálur med neinu falsi. Hann er trúr, og heitir hvorki né lofar ødru enn því, er hann bædi kann og vill efna.

1 Mós. b. 23, 19. Gud er ecki eins og manneskjan, ad hann ljúgi, ecki heldur eins og manneskjunnar barn, ad hann sjái sig um hønd.

Psálm. 33, 4. Drottins ord er sannarlegt, og hvørju, sem hann lofar, það efnir hann vissulega.

Merk: Oss er það nóg til trúarstyrkingar, ad vjer vitum hvad Gud hefir látid oss kunngjøra í sinu ordi, og það egnum vjer ad halda fyrir satt, án nockrar efasemi.



# Annar Kapituli.

## Um Guds Verk.

### I. Hvad Ritníngin kénnir um Sképunina og skapada hluti.

§. 1. Gud hefir í upphafi skapad himin og jørd af engu, alleina med sínu almætti, til gagns og gledi handa øllum sínum lifandi Sképnum.

1 Mós. 6. 1, 1. J øndverdu skapadi Gud himin og jørd. Psálm. 115, 15 Esaj. 40, 26.

Psálm. 53, 9. Hann taladi, þá skédi þad. Hann baud, þá stód þad þar.

Merk: Gud hefir med sképnínni svo dásamlega opinberad sitt almætti, speki og gædsku, ad sérhvørr, sem med alvarlegu athygli giefur gætur ad heiminum, hlýtur þar af ad uppørfast til ad heidra og vegsama Gud og þacka honum.

§. 2. Þegar Gud hafdi á sex døgum lokid sképunar verkinu, og giørt jørdina byggilega handa øllum lifandi sképnum, hvíldist hann edur hætti ad skapa á hinum siøunda deginum.

2 Mós.

2 Mós. b. 20, 11. Á sex døgum gjørdi Gud himin og jørd og hafid og allt, sem í þeim er, en hvildist á hinum sjøunda degi. Psálm. 104.

Merk: Sjøundi-dagurinn, sem er sá sídasti í vikunni, var ad Guds bodi heilagur haldinn hjá Gydingum, til þacklætis minníngar um heimsins skøpun; þar á mót egum vjer, Kristnir menn, ad halda heilagann fyrsta daginn í vikunni, til þacklátrar endurminníngar um Jesú Krists upprisu.

§. 3. Á sjotta degi vikunnar skapadi Gud hinn fyrsta karlmann, er hét Adam, af moldu, og hina fyrstu konu, sem kalladist Eva, af mannsins sídu. Bædi þau samtengdi Gud í hjúskap til ad auka kyn þeirra, og ad hvørt fyrir sig skyldi stunda annars velferd.

1 Mós. b. 1, 27. 28 Gud skapadi karlmann og qvennmann, blessadi þau og sagdi: aukist þid og margfaldist og uppfyllid jørdina

Post. G. b. 17, 26. Drottinn hefir gjørt, ad allar mannanna kynqvíslir búa á øllum jardarhnettinum, af einum ættstofni.

Merk: Þad er vidurqvæmilegt, ad allir vjer, án alls greinarmunar, berum umhyggju hvørr fyrir ødrum og elskum hvørr annann,

eins

eins og børn af sama foreldri, þar vjer allir játum, að Adam og Eva hafi verið vorir fyrstu foreldrar.

§. 4. Meðal hinna sýnilegu Guðs skèpna á jörðunni, er maðurinn hin ypparlegasta. Hann er gæddur með skynsemdarfullri sálu, í hentugum líkama handa henni, hann er og svo settur af Guði til að ráða yfir øllum øðrum dýrum.

Prèdik. b. 12, 7. Moldin hlýtur að hverfa til jarðarinnar aptur, hvar hún áður var, en andin til Guðs, sem gaf hann.

1 Mós. b. 1, 28. Guð sagði til vorra fyrstu foreldra: Gjørið yður jørðina undirgéfna, og drottnið yfir fiskunum í sjónum, og fuglunum í loptinu, og yfir øllum dýrum, sem hræðast á jørðunni.

Merk: Manneskjurnar hafa það mikið fram yfir dýrin, að þær gjeta þenkt, talað og breytt eptir skynsamlegri umþenkingu; en með þess meira athygli egum vjer að gæta vor, svo vjer ecki vanbrúkum þessa stóru yfirburði, á móti Guðs vilja, sjálfum oss og øðrum til skaða.

§ 5. Líkami mannsins er svo hagqvæmlega tilbúinn, ad bædi getum vér unnid þad, sem nytsamlegt er med limunna brúkun og líka notid stórrar ánægju med skilningarvitunum, hvør ad eru sjón, heyrn, ilman, smeckur og tilfinning.

1 Mós. b. 2, 15. Drottinn Gud setti Adam í aldingardinn Eden, til ad yrkja hann og vakta.

Ephes. 4, 28. Postulinn Páll útheimtir, ad vér skulum erfida, og vinna oss inn eitthvad þarft, svo vér høfum nockud til ad gefa þeim, sem medþurfa.

Merk: a) Vjer erum allir skapadir til ad erfida, því má enginn eyda sinni tíd í idjuleysi.

b) Þegar vjer njótum einnar edur annarar ánægju med skilningarvitunum, þá egum vjer ætíd vandlega ad gjæta hófs í hvørjum hlut, en fordast alla vanbrúkun, svo Guds gædska verdi oss ecki til fordjørfunar af sjálfskapa vitum.

§. 6. Sálin er sá mannsins partur, sem þenkir og ályktar. Hún er ódaudlegur andi, gædd med skynsemi til ad þeckja hvad rétt er eda rángt og med frjálsrædi til ad velja hvort heldur gott eda illt.

Matth.

Matth. 10. 28. Jesús sagdi: Hrædist ecki þá, sem líkamann deyda, en géta ecki fyrirfarid sálina

Merk: Þar ed sálin er ædri partur manneskjunnar, egum vjer kappkosta, ad láta oss framfara í nytsamlegri þeckingu og lærdómi, og ætíd girnast hid sanna góda, svo ad vjer hæfilegir verdum til sannarlegrar farsældar, bædi í þessu lífi, og einkanlega í því tilkomanda.

§. 7. Allt hvad Gud skapadi var yfrid gott, og í besta máta lagad til þess, sem þad var ætlad, en einkanlega var manneskjan, svo sem skilníngsfull vera, skøpud eptir Guds egin mind.

1 Mós. b. 1, 31. Gud sá allt, sem hann hafdi gjørt, og sjá! þad var yfrid gott.

1 Mós. b 1, 26. 27. Gud sagdi: Vér viljum gjøra manninn eptir vorri mind og líkingu, þá skapadi hann manneskjuna eptir Guds mind; hann skapadi þau karlmann og konu

Merk: Eckert af því vonda, er finnst í heiminum gietur tilreiknast Gudi, sem ecki var orsøk til þess. Skuldin verdur einúngis hjá manneskjunni, sem ecki gjætti síns medfædda sakleysis.

§. 8. Þær fyrstu manneskjur líktust Gudi i nockru, og í því tilliti er sagt, þær

þær hafi verid skapadar eptir Guds mind. Þar í vóru þær honum líkar, ad þær höfdu þeck ngar fullann skilning á öllu, sem þær med þurftu til ad byrja farsælleat líf, líka höfdu þær í viljanum lyst og lauungun til hins góda án þess ad freistast af nockri tilhneigingu til ills.

Prédik. 7, 29. Salómon segir: þad hefi eg fundid, ad þad, sem Gud hefir gjört manneskjunni, er rétt.

Hér á líka vid þad, sem Postulinn Páll segir: Cóloss. 3, 10. ad þeir trúudu hafi íklædst nýrri manneskju, sem endurnýjast til þeckingar eptir þess mind, sem hana hefir skapad Eph. 4,24.

Merk: Vjer egum ad ástunda ad verda Gudi líkir ad nýju, og kjeppast þess vegna daglega eptir ad láta oss fara fram í þeckíngu og rádvendni, svo vjer verdum ad nýjum og betri manneskjum.

§. 9. Auk manneskjunnar hefir Gud líka skapad adrar skynsemdar-fullar verur, sem hafa ædra edli, og kallast Englar. Þeir eru andar, hafa því skynsemi og frjálsræ i, en jardneskar manneskjur géta ecki sjed þá án Guds sérdeilislegrar tilhlutunar, því þér hafa engann jardneskann líkama.

Psálm.

Psálm. 103, 20. 21. Lofid Drottinn, þér hans Englar! þér eblugar hetjur, sem framqvæmid hans bod! lofid Drottinn, þér hans þénarar, sem gjørid hans vilja!

§. 10. a) Nockrir af Englunum hafa sjálfkrafa fallid frá sinni hlýdni vid Gud, þeir kallast þess vegna vondir Englar, og lída þad straff, sem íllska þeirra hafdi tilunnid.

2 Pét. 2, 4. Gud þirmdi ecki englunum, sem syndgudu, heldur steypti þeim nidur til helvítis, og setti þá í myrkra fjøtur, svo ad þeir geymist þar til dómsins. Matth. 25, 41, Jóh. 8, 44.

b) Hinir Englarnir hafa stadid stødugir í hlýdni sinni vid Gud, og kallast því gódir englar. Þeir hafa yndi sitt af ad skoda Guds dýrd, lofa hann og ákalla, og gjøra allt hvad, sem hann skipar þeim.

Ebr. 1, 14. Eru englarnir ecki þjónustusamir andar, útsendir vegna þeirra, sem ødlast skulu sáluhjálpina? Matth. 18, 10. Lúc. 1, 26-28. 2, 9-14. Matth. 28, 2-7

Merk: J þridju bæn af Fadir vor, verdum vier áminntir, ad gjøra þad, sem Gud vill, med sønnu lyst og ástundun, eins og gódu englarnir gjøra þad á himnum.

## II. Hvad Ritníngin kénnir oss um Guds Forsjón og Vidhaldallra skapadra hluta.

§. 1. Gud vidheldur øllum skøpudum hlutum med sínu almætti, og lætur þá nidurrødun í náttúrunni halda sér, sem hann einusinni hefir tilsett, því annars mundi hún fara aflaga.

1 Mós. b. 8, 22 Medan jørdin er vid lydi, skal hvørki linna sád né uppskera, frost né hiti, sumar né vetur, dagur né nótt.

Psálm. 104, 13. 14. Drottinn, minn Gud! þú vøkvar fjøllin hér efanad, og fyllir landid med ávøxtum, sem þú géfur. Þú lætur grasid spretta handa fénadinum, og korn, mønnunum til nota, svo ad þú útleidir braudid úr jørdunni.

Merk: Vier megum ætíd reida oss uppá Gud, hvørninn sem ástatt er fyrir oss, því med sínu almætti, speki og gædsku verndar hann jafnan heiminn; en vier megum held-

ur aldrei gleyma því, ad vegsama hann og þacka honum.

§ 2. a) Gud ber umhyggju fyrir øllum sínum skêpnum, smáum og stórum, veitir þeim øllum allt hvad þær vidþurfa til lífs uppheldis, gætir þeirra og verndar þær.

Psálm. 145, 15. 16. Allra augu vona til þín, Drottinn! og þú gêfur þeim þeirra fædu í hæfilegann tíma. Þú upplýkur þinni hendi, og sedur allar lifandi skêpnur med þinni blessun.

b) Sérílagi ber Gud umhyggju fyrir manneskjunum, er med skynseminni, og hennar réttri brúkun, gêta ordid njótandi lángtum meiri sælu enn skynlausu skêpnurnar.

Matth. 6, 26 - 30. Jesús sagdi: gætid ad fuglunum í loptinu, þeir sá hvørki né uppskêra, og ecki safna þeir í kornhlødur, samt fædir ydar himneskur Fadir þá. Erud þér ecki miklu ypparlegri enn þeir? — og þared Gud skrýdir grasid á akrinum, sem stendur í dag, en á morgun verdur kastad í ofn, mundi hann

ecki miklu fremur klæda ydur, o! þèr lítiltrúadir? Matth. 5, 45.

Merk: a) Vjer megum ecki misbrúka skynlausar skjepnur edur fara illa med þær, því Gud, sem hefir skapad þær og nærir, vill líka ad þeim vegni vel eins og oss.

b) Vjer egum ecki ad misbrúka Guds gáfur til óhófs, því hann hefir ecki gjefid oss þær til annars, enn ad vjer skyldum med þeim efla vort egid og annara sannarlegt gagn.

c) Þared Gud hefir gefid oss vora limi og krapta til þess vjer skyldum brúka þá til nytsamlegrar vinnu, þá vill hann ecki med ødrum hætti bera umhyggju fyrir voru uppheldi, enn ad vjer sjálfir seum jafnframt ydnir og atorkusamir, hvørr í sínu rjetta standi og embætti. 1 Mós. 6 3, 19 2 Thess. 3, 11. 12.

d) Þad er sannarlegur Velgjørníngur af Gudi, ad vjer erum skyldugir ad erfida, því þar med styrkist heilsa líkamans, og sálin uppørfast til ad hugsa um þad, sem er gott og nytsamlegt, í stad þess ad sækjast eptir syndsamlegri gledi.

§. 3. Gud, sem er heimsins Drottinn og stjórnari, stýrir med speki og gædsku, øllu því, sem vidber í heiminum, svo ad bædi gott og íllt fá þau endalok, sem honum þykja haggvænust.

Matth. 10, 29-31. Jesús sagdi: seljast ecki tveir titlíngar fyrir einn smápen-

penîng? samt ellur enginn af þeim til jardar án ydar fødurs vilja. En fremur! øll ydar høfud hár eru lîka talin. Ottist þess vegna ecki! þér erud meira verdir enn margir titlingar.

1 Mós. b. 50, 20. Jóseph sagdi vid brædur sîna: þér ætludud ad gjøra mér îllt, en Gud ásetti ad snúa þvî til góds, til ad gjøra þad, sem nú er framkomid, og halda møргu fólki vid lîfid.

Merk a) Vjer egum ad fela Gudi á høndur hvada árángur verdur af vorn løglegu erfidi, þared eckert skedur án hans vilja edur tillátsemi.

b) Þegar Gud leyfir vondum mønnum ad gjøra skada, vegna þess hann vill ecki med makt svipta þá frjálsrædi þeirra, megum vjer samt treysta því, ad hann í tækann tíma mun snúa því til góds, annadhvort til vorrar egin edur annara nytsemdar.

c) Jafnvel þó þad á stundum líti svo út, eins og hinum ógudlegu gángi allt ad óskum, en gudhræddir megi lída naudir og volædi, er Gud samt vísdómsfullur og rettlátur í sinni stjórnun, því hann veit best hvad nytsamlegt er, bædi hvorjum útaf fyrir sig, og líka øllum heiminum yfir høfud ad tala, en í hinu ødru lîfi mun hann vissulega straffa serhvorn og launa øllum, eptir sem hvørr hefir tilunnid.

§. 4. Sérhvørjum ber ad álita þad stand, sem hann er i settur, eins og vissa kollun af Gudi, til ad gjöra þar svo mikid gagn, sem honum eptir fremsta megni, eſnum og áſigkomulagi er mögulegt.

1 Sam. 2, 6 Drottinn er sá, sem gjörir fátækann og ríkann. Hann er sá, sem niduþryckir og upphefur.

1 Cor. 7, 20. Hvør einn standi stødugur i þeirri stétt, sem hann er tilkalladur.

Merk: Hvørr, sem er óánægdur med sitt stand, sá áſakar Guds algódu forsjón, og sýnir í því mikla fávitsku.

§. 5. Hvad, sem oss mætir í þessu lífi, hvort þad er heldur sorg eda gledi, er oss af Gudi ætlad eptir besta tilgángi, svo vér høfum ætíd orsøk til ad vera ánægdir med hans stjórnun og umrád.

Ebr. 13, 5. 6. Látid ydur nægjast med þad, sem þér hafid, því sjálfur Drottinn hefir sagt: eg skal ecki svipta minni hendi af þér, og enganveginn yfirgéfa þig; vér gétum því hughraustir sagt: Drottinn er minn hjálpari, eg skal ecki qvída.

Róm.

Róm. 8, 28. Vèr vitum ad allir hlutir verda ad þèna þeim til góds, sem Gud elska

Merk: Ovidurqvæmilegt er fyrir oss ad falla í vøl edur efasemi, þá mótgángur uppákjemur, þar vjer vitum ad Guds forsjón vakir yfir oss, og ad neydin sjálf verdur ad med-ali í Guds hendi, til ad efla vort sannarlega gagn.

Lærdómurinn um sköpunina og vidhaldid er stuttlega útmáladur í fyrstu grein Trúar-játníngarinnar í frædunum.



## Þridji Kapítuli.
### Um manneskjanna spillíngu af Syndinni.

§. 1. Reynslan sýnir, ad mann-eskjurnar eru ecki svo gódar, sem þær vera ættu. Allir hafa sína bresti, og hjá øllum hreifir sèr ein edur önnur syndsamleg tilhneigíng, hjá sumum meir, en sumum minna.

Rom. 3, 23. Allir hafa syngad, og hafa skort á þeirri hrósun, sem hjá Gudi gyldir.  1 Jóh.

1 Jóh. 1, 8. Ef vèr segjum: ad vèr høfum ecki synd, þá svíkjum vèr sjálfa oss, og sannleikurinn er ecki í oss.

Merk: Vjer hafum enga orsøk til ad treysta vorum eginn verdugleika edur fyrirlíta adra, því allir erum vjer ófullkomnir, og sjerhvorr hefir nóg ad ásaka sig fyrir.

§ 2. Sú almenna spilling mannesskjanna er einkanlega þar í fólgin, ad þeir brúka ecki skynsemina til rèttrar yfirvegunar, hvad ed kémur þar af, ad syndsamleg girnd til jardneskra hluta, sem skilníngar-vitin styda til, hefir fengid svo mikid vald yfir hugskoti þeirra, ad þeir sækjast eptir ródum hlutum, svo sem væru þeir þad ædsta góda. Þar af skédur, ad manneskjan gétur haft vit á því góda, en hefir samt tilhneigíngu til hins vonda.

Marc. 7, 21-23. Jesús segir: innanad frá manneskjunnar hugskoti, útkoma vondar hugsanir, hórdómur, frillulifi, mord, þjófnadur, ágirnd, illska, svik, lausslæti, øfund, bakmælgi, dramb, hyrduleysi. Allt þetta kémur út innanad, og saurgar manneskjuna.

Róm.

Róm. 7, 18. Postulinn Páll játar: eg veit að i mér (það er i syndum-spilltri náttúru minni), býr eckert gott.

*Merk*: Vjer verðum náqvæmlega að gæta vor, svo að vondar girndir uppqveikist ecki hjá oss, en alvarlega kappkosta að niðurkefja þær, þegar þær taka til að hreifa ser, svo þær fái ecki yfirhønd, og að vjer ecki hrøpum i lesti og ódygðir, sem draga Guðs ónáð eptir sig bæði i þessu lífi og hinu tilkomanda.

§. 3. a) Ecki er Guði um spillingu manneskjunnar að kénna, því hann skóp þær fyrstu manneskjur saklausar eptir sinni egin mind.

Jac. 1, 13. Enginn segi nær hann freistast: eg freistast af Guði, því Guð gétur ecki freistast af nockru illu, hann sjálfur freistar og einkis.

b) Guð hafði bannað fyrstu mann-eskjunum að eta ávøxtinn af einu til-teknu tré, en þau gjorðu það samt, og fyrir þá sok urðu þau ecki einúngis, svo sem óhlýdug, dauða-straffi undirorpin, eins og Guð hafði hótað þeim, heldur mistu þau líka þeirra fyrri lyst til hins góða, þar eð óregluleg girnd til jarðneskra hluta féck yfirráð yfir skyn-semi og vilja þeirra.

1 Mós. b. 2, 16. 17. Gud Drottinn baud manneskjunni og sagdi: af øllum trjám í aldingardinum máttú eta, en af skilnings-trénu góds og ills máttú ecki eta, því nær, sem þú etur af því, skaltú vissulega deyja.

Merk: Gud reyndi ecki sjálfs síns vegna vora fyrstu foreldra med því, ad banna þeim ávøxtinn á trjenu, þar hann vissi gjorla fyrirfram, hvørt þau mundu hlýda sér edur ecki; heldur var þørf á einhvørri reynslu vegna sjálfra þeirra, allteins og vegna serhvorrar annarar skilningsfullrar skjepnu. Reynsla þessi átti ad gjefa þeim tækifæri til, ad brúka þeirra sjálfrædi, útvelja hid góda, en hafna því illa, eptir egin umþenkingu, þeim sjálfum til stadfestíngar í dygd og rádvendni

§. 4. Ritningin segir oss, ad einn af þeim englum, sem fallnir vóru frá hlýdni vid Gud, og sérílagi kallast djøfull, hefi reynt ad steypa vorum fyrstu foreldrum í somu naudir, sem hann var sjálfur kominn í, og ginnti Evu til ad eta af forbodna trénu, en hún lockadi sídan mann sinn Adam til sama verks.

1 Mós. b. 3, 1-6. Høggormurinn sagdi vid konuna: ecki munud þid deyja, því Gud veit, ad nær, sem þid etid af því tré, munu yckar augu upp-

uppljúkast, og þid munud verda eins og Gud í ad þeckja gott og íllt. En konan sá, ad tréd var gott ad eta af, fagurt á ad líta, og girnilegt til fródleiks, svo hún tók af þess ávexti og át, og hún gaf manni sínum þar af, og hann át.

Jóh. 8, 44. Djøfullinn var mord'ngi frá upphafi, og var ecki stødugur í sannleikanum, því sannleiki er ecki í honum. Þegar hann talar lygi, talar hann af sínu egin því hann er lygari og lyginnar høfundur.

Merk: Hefdi Gud átt ad hindra vora fyrstu foreldra frá ad brjóta hans bodord, þá hefdi hann ordid ad þvínga þau med almætti sínu, þared þau vildu ecki viljuglega hlýda hans bodi og advørun. En þá hefdu þau mist skynsemi sína og frjálsrædi, og undir eins ordid ad skynlausum skepnum, er ecki hefdu sídan gietad tekid á móti þeirri sælu, sem þeim var ætlud, hvad þó ecki var samqvæmt med Guds speki og gædsku.

§. 5. a) Vorir fyrstu foreldrar gátu ecki látid þad sakleysi gánga í ættir, til afkomenda sinna, sem þau høfdu sjálf mist; en sídan sjálfra þeirra edli var ordid spillt og skémmt, hlaut þar af

ad fylgja ad nidjar þeirra erfdu þessa spillíngu.

Psálm. 51, 7. David játar: eg er fæddur med misverknadi, og í syndinni gat min módir mig, Jóh. 3, 6.

b) Søkum þess, ad syndsamleg girnd til jardneskra hluta fêck yfirrád hjá vorum fyrstu foreldrum, er hin sama girnd nú ordin krøptug í allra manna sálum; med ára fjøldanum fædir hún af sêr ymislegar syndir, en daudinn er þad straff, sem Gud hefir vidlagt, ef þær drygdar væru.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og daudinn vegna syndarinnar, svo hefir daudinn sêr til allra manna innþreyngt, því allir hafa syndgad, Róm. 6, 23.

Merk: a) Eins og þad tre, sem er af illri tegund, getur ecki borid bestu ávexti, eins er þess ecki heldur von, ad foreldrar, sem tapad hafa sakleysi sínu og eru spilltir af vondum girndum, kunni ad gjøra góda og med øllu saklausa afkomendur, því verkanin verdur ad líkjast orsøkinni. Matth 7, 16. 18. Jóh. 14. 4.

b) Gud vildi ecki hindra ad sú almenna spilling, sem af hinum fyrstu mønnum kom inní heiminn, útbreidist eptir náttúrlegu edli og rás til allra þeirra afkomenda, því hann

hann hafdi frá eilífd fyrirhugad þeim øllum nægilegt lausnar-medal vegna Krists. Róm. 11, 32. Gal. 3. 22.

§. 6. Hvørsu stór, sem spillingin var, sem komin er yfir allar manneskjur, hefir Gud þó hagad því svo, ad í vorum hjørtum skyldi eptir verda drottnandi eptirlángan til luckn og velgengnis, sem ecki leyfir oss, ad vera oldúngis hyrdulausum um vora egin velferd.

Ephes. 5, 29. Aldrei hefir neinn hatad sinn eginn líkama, heldur fædir hann og endurnærir.

Merk: a) Sannarleg farsæld hjer í heimi er einúngis innisalinn í velgrundadri sinnis rósemi og ánægju. Hvad, sem móti henni stridir, er ecki verdt ad sækjast eptir, þar þad er miklu meir farsæld vorri til hindrunar enn eblingar.

b) Lesti og ódygdir, sem án efa munu eptir á abla oss mikils sinnis óróa, egum vjer af fremsta megni ad fordast, og af ad leggja.

§. 7. Spillingin hefir samt ecki getad svo mikid adgjørt, ad vér séum øldúngis tilfinningarlausir um þad sem er rétt eda rángt í vorum athøfnum, því eptir Guds alvísu rádstøfun høfum vér allir samvitsku, er lætur oss finna

til innvortis ánægju, þegar vér gjörum þad, sem rétt er, en þarámót uppvekur innvortis óánægju og órósemi, þegar vér tökum oss eitthvad þad fyrir höndur, sem ecki er rétt edur leyfilegt.

Róm. 2, 14. 15. Þegar Heidíngjarnir, sem ecki hafa lögmálid, gjöra þad af náttúrunni, sem lögmálid skipar, þá eru þeir, þótt ecki hafi þeir lögmálid, sjálfum sér í lögmáls stad; því þeir sýna, ad lögmálsins verk eru skrifud í þeirra hugskoti, med því þeirra samvitska ber þeim vitni og þeirra þánkar, sem ásaka edur afsaka þá innbyrdis.

Merk: a) Vor samvitska er gód, þegar vjer finnum hjá sjálfum oss, ad eckert verdur med rettu fundid ad vorri breytni. Þarámóti er vor samvitska vond, þegar vjer finnum, ad vjer ecki höfum hegdad oss eins og vera ber.

b) Stærri qvöl kann ecki ad hugsast, enn vond samvitska, sem ofsækir med sínu álasi bædi í lífi og dauda. Þess vegna eigum vjer, því heldur kappkosta, ad lifa gudrækilega, svo vjer getum haldid gódri samvitsku.

c) Hiá mörgum sefur samvitskan um stundarsakir, medan þeir ecki gjefa gætur ad ill-verkum sínum, en einhvörn tíma mun hún samt

vakna,

vákna, innn þá og uppkoma þess stærri qvídi og ángur í sálunni.

§. 8. a) Manneskjan syndgar, þegar hún verdur brotleg í einhverju, sem strídir á móti Guds bodi, þessvegna er þad allt synd, sem ecki er samqvæmt med Guds vilja.

1 Jóh. 3, 4. Hvørr, sem syndina drýgir, hann gjørir þad, sem er móti løgmálinu, því þad er synd, sem er móti løgmálinu.

b) Manneskjan drýgir synd med hugrenningum og girndum, þegar hún hefir ánægju af ad huxa um þad, sem Gudi er á móti, og sækist eptir því.

Matth 9, 4. Jesús sagdi til Pharísæanna: því hugsid þér svo íllt í ydar hjørtum? Matth 15, 19. 20.

c) Manneskjan drýgir synd med ordunum, þegar hún talar um eitthvad, sem annadhvert ecki sambýdur þeirri virdíngu, er hún á Gudi ad veita, eda mógg:r, eda ar skadar náúngann.

Matth. 22, 36. Jesús sagdi: manneskjurnar eiga ad standa reikning á dóms degi, af sérhvørju óviddurqvæmilegu ordi, sem þær hafa talad.

d) Mann=

*d*) Manneskjan drýgir synd með verkunum, þegar hún annadhvort gjörir eitthvad, sem Gud hefir bannad, edur lætur ógjört, sem hann hefir skipad.

1 Jóh. 3, 6. Hvørr, sem støduglega heldur sér til Guds, drýgir ecki synd. Hvørr, sem syndina drýgir, hefir hvørki sjed Gud né adhyllst hann.

Jac. 4. 17. Hvørr, sem kann ad gjøra gott, en gjørir þad ecki hann syndgar.

Merk: Þad er ecki nóg, ad vjer fordumst útvortis ill ord og verk, sem gjøra oss jafnvel fyrir mønnunum andstyggilega, heldur egum vjer einnig ad gæta vor vid illum hugrenningum, sem ecki eru huldar fyrir alvísum Gudi, er hefir vidbjód á þeim, og mun straffa þær.

§. 9. *a*) Allar syndir eru ad sønnu ránglndi í sjálfum sér, samt eru þær ecki allar jafnstórar, eda sømu ressingar verdar.

Jóh. 19, 11. Jesús sagdi vid Pilatum: sá sem fékk mig þér í hendur, hefir meira syndgad enn þú.

*b*) Sannkristin manneskja getur syndgad af breiskleika, annadhvort af því hún hefir ecki betur vit á, jafnvel þó hún bædi gæti og ætti ad hafa haft vit

á því, ellegar hún gjörir það í bráðræði, og móti vilja sínum; en strax, sem hún verður vör við yfirsjón sína, ángrast hún af henni, og með einlægum ásetníngi að vilja betra sig. biður Guð fyrir Krists sakir, um náð.

Róm. 7, 18. 19. Viljan til þess góða hefi eg að sönnu, enn ecki krapt til að framqvæma það; því hið góða, sem eg vil, það gjöri eg ecki, en hið vonda, sem eg ecki vil, það gjöri eg.

c) Hinn óguðlegi syndgar af ásetníngi, þótt hann viti betur, og hann hefir yndi af því, án þess hann ángrist af illsku sinni, eða biðji fyrirgefníngar á henni, og leitist við að betra sig.

Philipp. 3, 18. 19. Margir breyta, eins og eg optsinnis hefi sagt yður, og með grátandi tárum segi enn, að þeir eru óvinir krossins Kristi, hvörra afdrif verða, að þeir torthnast; þeir, sem hafa magann fyrir sinn Guð, þykir sómi að skömmunum, og sækjast eptir jarðneskum munum.

d) Hvörr, sem syndgar af ásetníngi sýnir þar með, að hann metur Guð einkis í hjarta sínu, og lætur ecki ásann-

aſt hvørſu óſegjanlega gædſkurikur Gud er; þeſs vegna er þad réttviſt ad hann fái hardara ſtraff enn ſá, ſem illa breytir, án þeſs ad gjora þad af áſetníngi.

Lúc. 12, 47. 48. Sá þjón, ſem veit ſíns Herra vilja, og býr ſig ecki til, eda breytir eptir honum, mun ſtraffaſt hardt; en hinn, ſem ecki veit þann vilja, og hvørjum þó heſir á ordid, hann mun ſtraffaſt minna.

Merk: Pad ſiridir ældúngis móti þeirri elſku og virdíngu, ſem ſannkriſtin manneſkja á ad hafa fyrir Gudi, ad gjøra nockud af áſettu rádi, ſem hún veit ad ſtridir móti Guds vilja, ellegar láta nockud af því med áſetníngi ógjørt, ſem hún er ſkyldug ad gjøra. Hvørr, ſem af hjarta virdir og elſkar Gud, ſá fordaſt med meſta varud ad brjóta viſsvitandi móti nockru hans bodordi. 1 Móſ. b. 39, 9. Róm. 6, 15.

§. 10. a) Manneſkjan gétur ecki ødlaſt neina ſannarlega, farſæld af ſyndinni, því hennar ímindada kjæti hverfur ſkjótt; en bædi óróſemi og blygdan ſamvitſkunnar, og Guds ónád fylgja eptir henni, er áſamt med ſteypir manneſkjunni, og þad ſtundum ſtrax í þeſſu líſi í margskyns eymd og volædi.

Ordsqv. b. 14, 34. Syndin er lands og lýda tøpun. 1 Tim. 6, 10. Jac. 4, 1. 2.

b) J eptirkomanda lifi verda strax qvalir og útilokan frá Guds náð og miskunsemi víss gjøld og umbun syndanna, ef vér holdum án yfirbótar áfram í þeim með getþeckni og af ásetningi.

Róm. 2, 8 9. Yfir þá, sem eru mótsnúnir, og ecki hlyda sannleikanum, en fallast heldur á ránglætið, skal koma reidi og hefnd; hrellíngar og harmqvæli skulu vera yfir allra manna sálum, sem illsku drygja.

Merk: Mjøg hættulegt er, ad láta syndanna tilloc̄kanir rótfestast í hjartanu; því auk þess, ad manneskjan spillir þar med hugarfari sínu og sinnislagi, svo gietur su synd, sem opt er um hønd høfd, ordid fljótt ad vana, og vaninn um sídir ad forherdíngu, hvar af yfirbótin verdur lángtum torveldari.



# Fiórdi Kapituli.

## Um það, hvørnig Jesús Kristur Guds Sonur hefir vidrétt manneskjunnar úr þeirra spillíngu.

§. 1. Gud vildi ecki ad syndin, sem í heiminn var komin, skyldi steypa mann-

manneskjunum í eilífa töpun, án þess nockur von væri um frelsi. Þess vegna hefir hann, af sinni líknarfullu elsku, tilskipad þeim Endurlausnara, til ad frelsa þær frá syndarinnar skadlegu verkunum, en veita þeim aptur adgáng til Guds nádar, bædi í þessu lífi og því tilkomanda.

Jóh. 3, 16. Jesús segir: svo elskadi Gud veröldina, ad hann gaf i daudann sinn eingétinn Son, til þess, ad allir þeir, sem á hann trúa ecki skuli fyrirfarast heldur hafa eilífa sælu. Róm. 8, 32. Eph. 1, 6. 7.

Merk: a) Endurlausnarinn var ecki sendur til ad frelsa syndugar manneskjur frá þeirra líkamlegri naud, því þeirra sannarlega gagn útheimtir, ad Gud verdur leysa ad hörmúngar og mótgángur uppásalli fyrir þeim, til ad uppvekja hjá þeim laungun eptir betra lífi, og koma þeim til ad afneita veraldlegum hjegóma. Ebr. 13, 5-11. Jac. 1, 2-4.

b) Eptir speki | sinni og elsku sendi Gud Endurlausnarann til ad afmá syndarinnar skelfilegu verkanir, er olla manneskjunum mestu eymdar og bágindа; því syndinni fylgja Guds reidi, órósemi samvitskunnar, örvænting í daudanum, ásamt med útilokun frá öllum sóma og gledi í eilífdinni, hvar ógudlegir ecki ega von, nema á qvöl og ángist. 1 Jóh. 3, 4. 2 Cor. 5, 21. §. 2.

§. 2. Endurlausnarinn er Jesús Kristur Guds himneska Fødurs einngetinn Sonur, sem frá eillífd hefir verid samenadur med Fødurnum í einni og sömu sannarlega guddómlegri veru, en kom í heiminn á þeim tíma, sem Gud hafdi ádur tiltekid í sínum fyriheitum.

1 Jóh. 4 10. 15. Svo var þeirri elsku varid, ecki ad vér elskudum Gud, heldur ad hann elskadi oss, og sendi sinn Son til ad forlíka fyrir vorar syndir. — Hvörr, sem medkénnir, ad Jesús er Guds Son, honum hjálpar Gud stadfastlega, og hann heldur sér støduglega til Guds. Jóh. 3, 17. 18.

1 Mós. b. 22, 18. Drottinn gaf Abraham þad loford: af þínu afqvæmi skulu allar þjódir á jørdunni blessun hljóta, Gal. 3, 16. 1 Mós. 3, 15.

Merk: a) Eptir Guds egin skipan var Endurlausnarinn kalladur Jesús, er þýdir Frelsari, svo þar med yrdi sýnt, ad hann ætti ad frelsa mannkynid frá þeirri synd, í hvørja syndin hafi steypt því. Matth. 1, 21.

b) Endurlausnarinn kallast Kristur edur Messías, vegna þess, ad spádómarnir tala um hann, svo sem þann Drottins smurda, er vera skyldi Herra og Kóngur í andlega nádar-ríkinu,

hvørt

hvørt Gud ætladi ad láta hann stipta til syndaranna frelsis.

c) Enginn annar enn Jesús af Nazareth getur verid Messías, þvi øll þau kjennimerki, sem honum eru tilløgd í Guds fyrirheitum, ega fullkomlega heima hjá honum. Jóh. 7, 40. 42. Matth. 26, 63. 64. Jóh. 4, 25. 26. 9, 35, 38. 18, 32-37.

Messías átti, ad því leiti, sem hann var manneskja, ad vera kominn af Abrahams ætt 1 Mós. b. 22, 18. og Davids kynþætti, Esa. 11, 1. líka fædast í Bethlehem, Davids borg. Mich. 5, 1.

Messías átti ad koma í heiminn, ádur enn Gydíngar høfdu øldungis mist sína egin valdstjórn, 1 Mós. b. 49, 8-10. ádur enn seinna musterid í Jerusalem eydilagdist, Hagg 2, 7. og ádur enn sú Tíd væri lidin, sem Spámadurinn Daniel hafdi tiltekid, Dan. 9, 24-27.

Messías átti fyrst ad lída sára pínu og líflátinn verda, en strax þar eptir uppríſa af grøfinni til óforgengilegs lífs, og med því, ad útbreida sinn lærdóm, snúa mørgum þjódum frá skurdgoda dýrkun til sannleiksins þeckíngar. Psálm. 22, 1. 19. Es. 53, 1-9. Ps. 16, 5-1 . 110, 1-4. Esa. 42, 1-9, 53, 10-12. 55, 1-5.

Allt þetta er framkomid einúngis á Jesú frá Nazareth, og gjetur sídan ecki framkomid vid neinn annann, því þau kjennimerki, med hvørium þeim tilkomandi Messías var lýst, eru ecki lengur til. §. 3.

§. 3. Guds Son Jesús Kristur, er, ad því leiti, sem hann er manneskja, kominn í heiminn á þann hátt, ad hann fæddist af Maríu meyju. Hann sameinadi þá guddómlegu náttúru vid hina mannlegu, sem tilbúin var í móðurlífi af heilags anda krapti, med þeim hætti, sem vér ecki gétum skilid, svo ad hann er undir eins bædi Gud og madur, og verkar ætíd med bádum sínum náttúrum.

Matth. 1, 20. 21. Engillinn sagdi vid Jóseph, sem var trúlofadur Maríu: óhladú ecki fyrir þér, ad taka Maríu þína festarkonu heim til þín, því hennar fóstur er af heilögum Anda, og hún mun son fæda, og hans nafn skalt þú kalla Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk af þess syndum, Lúc. 1, 35.

Róm. 9, 5. Kristur er eptir holdinu, edur sinni mannlegu náttúru, af fedrunum, hann, sem er Gud yfir øllu, blessadur ad eilífu.

Merk: Allt þad, sem Jesus Kristur útverkadi handa oss, gjørdi hann ecki, sem einungis manneskja, heldur sem Gud og madur undir eins. Þess vegna høfum vier lika

líka sterkustu fullvissu um, ad hans lærdómur se af Gudi, og ad sú endurlausn, sem hann hefir oss afrekad, se fullgyld.

§. 4. *a*) Jesús Kristur vard sannarleg manneskja med sálu og líkama eins og vér, en þó án syndar, og fullkomlega heilagur í ollu sínu framferdi.

Jóh. 8, 46. Jesús spurdi sína óvini: hvørr af ydur getur bevísad uppá mig nockrar synd? 1 Pét. 2, 22. Ebr. 7, 26.

*b*) Jesús sýndi í ollu sínu liferni hlýdni vid øll Guds Bodord, bædi til ad afreka oss betra réttlæti, og líka til ad eptirláta oss hid besta eptirdæmi, hvorju vér fylgja skyldum.

Róm. 5, 19. Eins og af þess eina manns (Adams) óhlýdni, eru þeir mørgu syndugir ordnir, eins munu líka þeir mørgu af hins eina (Jesú Krists) hlýdni verda réttlættir.

1 Pét. 2, 21. Kristur hefir oss eptirdæmi géfid til þess vér skyldum feta í hans fótspor. Matth. 11, 29 Phil. 2, 5.

Merk; a) Eins og Jesú Krists eptirbreytendur, egum vjer, ad hans dæmi, med al-

alvarlegri áslundun audsýna, ad vjer seum ánægdir med það, sem Gud vill vera láta, Matth. 26, 39. líka hafa eptirlaungun og kapp á ad gjöra það, sem honum er þóknanlegt. Jóh. 4, 34.

b) Vjer egum, eptir Jesú dæmi, láta ásannast í verkunum, ad vjer elskum alla menn, med því ad kienna í brjósti um þá aumu, og hjálpa þeim eptir efnum Lúc. 7, 11. 17. Matth. 9, 35. 36. líka fúslega fyrirgjefa vorum mótstødumønnum, Lúc. 23, 4 og vera reidubúnir til ad þjena þeim í øllu, Jóh. 13, 1. 20.

c) Vjer egum keppast eptir ad líkjast Jesú í þolinmædi, 1 Pet. 2, 23. Matth. 26, 47-54 Lúc. 22, 61-68. einnig í því ad vera ánægdir og afneita sjálfum oss vegna sannleikans. Matth. 8, 20.

§. 5. a) Þegar Jesús var þrjátýgi ára gamall, lét hann skíra sig í ánni Jórdan, og þá var af himnum med dýrdlegum hætti kunngjørt, ad hann væri Guds Sonur.

Matth. 3, 16. 17. Þegar Jesús var skírdur, stè hann jafnskjótt uppúr vatninu, og sjá! ad himnarnir lukust upp yfir honum, og hann sá Guds Anda ofan stíga, og yfir hann koma, og sjá! ad røddin af himni sagdi: þessi er

Sonur minn elskulegur, á hvørjum eg hefi velþóknun

*b*) Jesús var strax eptir skírnina á eydimørku reyndur í fjørutygi daga med margeslags hætti, svo ad hann med sínu stødugslyndi gæfi oss dæmi til ad breyta eptir.

Marc. 1, 12. 13. Andinn (Guds Andi) færdi hann jafnskjótt út á eydimørkina, og Jesús var þar í fjørutygi daga, og vard freistadur af andskotanum. Matth. 4, 1 : 11.

*c*) Eptir ad Jesús var skírdur, og hafdi afstadid freistinguna, ferdadist hañ umkríng medal Gydínga á fjórda ár, og kénndi þeim eins og Spámadur af himnum sendur, Guds ráð og vilja, um syndaranna freisun og sáluhjálp.

Marc. 1, 14. 15. Jesús predikadi lærdóminn um Guds ríki, og sagdi: tíminn er kominn og Guds ríki nálægist, sjáid ad ydur, og trúid Evangelió. Matth. 4, 23.

*d*) Medan Jesús géck í kríng og kénndi, stadfesti hann opt kénníngu sína med miklum og gædskuríkum kraptaverkum, sem augljósiega sýndu, ad hann var af Gudi sendur. Matth.

Matth. 11, 4. 5. Jesús sagdi vid lærisveina Jóhannis skírara: farid og kunngjörid Jóhanni, þad, sem þér heyrid og sjáid: blindir sá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir uppríſa og volaudum verdur Evangelium bodad. Post. g. b. 10, 37. 38.

Merk: a) Med Jesú Kriſts dýrmæta lærdómi, er hvad af hvørju afmád og upprætt sú vidurstyggilega hjátrú og afgudadyrkan, sem ádur drottnadi í verøldinni. 1 Cor. 8, 4-6.

b) Med Jesú lærdómi höfum vjer fengid retta þeckíngu á Gudi og hans vilja í því, sem vidkjemur syndaranna sáluhjálp. Jóh. 14, 5-7. 17, 3. 6. 8. 14. 17.

c) Jesús hefir kjennt oss þad, sem vjer annars værum ecki fullvissir um, nefnilega: ad annad líf se til eptir þetta, og ad gudhræddir komi eptir daudann í eilífa sælu. Jóh. 3, 13. 18. 5, 21-29. 1 Pet. 1, 3-5. 2 Tim. 1, 8-10.

d) Jesú lærdómur er oss besti leidarvísir til dygdafulls lífernis. Matth. 5, 6 7. 13. 15. 18. 20. 22. 25. Lúc. 10, 16. 18. Jóh. 13, 14. 15. 16.

e) Hvørr, sem med einlægu hjartaþeli vill medtaka Jesú lærdóm og fylgja honum, mun sannarlega komast ad raun um, ad í honum er gudlegur kraptur, til ad betra hjartad, hugga samvitskuna og stadfesta

vonina um eilífa sælu. Þarmed styrkist líka í kroptugasta máta vor fullvissa um, ad þessi lærdómur se Fødursins ord, sem hann liet Soninn opinbera mannkyninu, og ad sá lærdómur er þess vegna í sannleika guddómlegur. Jóh. 7, 16. 17. 8, 31-36. 12, 44-50. 14. 8-10.

§. 6. a) Medan Jesús kénndi á Gydingalandi, var hann undirorpinn margskonar ofsóknum, þared hefdingjar Gydinganna, fyrir ofundarsakir yfir því hvad mikid honum tókst vid almúgann, og af hatri vid Jesúm, af því hann vildi ecki fegra vondsku þeirra, reyndu til bædi med vélum og ofriki, ad taka hann af lífi.

Lúc. 19, 47. 48. Hann kénndi daglega í musterinu, en yppurstu Prestarnir og skriptlærdir og høfdingjar lýdsins sóktu eptir ad fyrirkoma honum, þó fundu þeir eckert, er þeir gætu gjørt, því allt fólkid hné ad honum, og hlýddi honum. Matth. 12. 14. 22. 15-21. 27, 18. Lúc. 20, 20.

b) Jesú eginn lærisveinn, svikarinn Júdas, var um sídir keyptur til ad selja hann høfdingjunum í hendur, sem þá dæmdu hann án allra saka til dauda, og fengu hann heidna Landsdómaranum

þeim

þeim pontverska Pilató. Þessi Pilatus óttadist reidi Keisarans, hvorri þeir hótudu honum, og lét móti vilja sínum húdstrýkja Jesúm, þyrni krýna, hæda og negla eins og illvirkja á krossinn, hvar hann uppgaf sinn anda.

Matth. 20, 18. 19. Jesús sagdi fyrifram vid sína lærisveina: sjá! vèr förum nú upp til Jerúsalem, og mannsins Son mun seljast Presta-höfdingjum og skriptlærdum í hendur, og þeir munu dæma hann til dauda, og fá hann Heidingjum til ad láta spotta hann, húdstrýkja og krossfesta. Matth. 16, 21-23. 17, 22. 23. Lúc. 18, 31-34. Matth. 26, 14. 16. Marc. 14, 43-46. Jóh. 13, 21-30. 18, 1-9.

Lúc. 23, 46. Loksins kalladi Jesús á krossinum med hárri raustu og sagdi: Fadir! í þínar hendur, fel eg minn anda, og í því hann sagdi þad, uppgaf hann sinn anda. Jóh. 19, 33-37.

c) Jesús vard ecki einasta ad þola sára pínu á líkamanum, heldur leid hann líka á sálunni beiska qvöl og ángist vegna mannanna synda.

Matth. 26, 37-39. Þegar Jesús var kominn í grasgardinn, tók hann ákaflega ad hriggjast, segjandi: mín sál er hrigg allt til daudans; þar eptir gêck hann lengra fram, fêll nidur á sínu ásjónu, bad og sagdi: minn Fadir! ef þad er mögulegt, þá lídi þessi kaleikur frá mêr! þó ecki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt. Matth. 27, 46. Lúc. 22, 41-44.

Merk: a) Jesús sýndi med hugprýdi sinni ad hann væri ecki hræddur fyrir daudanum, Þegar hann gêck á móti óvinunum, sem vóru ad leita ad honum, hann vissi líka ad hinir himnesku andar mundu veita sêr lid, ef hann vildi slíta sig úr höndum óvina sinna; og þar ed þeir allir duttu til jardar þegar hann taladi, sýndi hann hvad hægt sêr hefdi verid, ad sleppa frá þeim, ef hann hefdi viljad. Matth. 26, 53. Jóh. 18, 4-6.

b) Þad var ecki ad undra þó Jesú eins og manneskju, bløskradi ad hugsa til þeirrar ógnarlegu pínu, er fyrir honum lá. En-laungu ádur vissi hann, hvad yfir sig mundi koma, var samt ætíd óhræddur og reidubúinn til ad taka þad alltsaman, mannanna vegna, uppá sig eptir síns fodurs vilja. Þar af er audradid, ad hans mikla sálar ángist hafi einkanlega komid af því, ad hann setti sêr fyrir sjónir allra syndugra manna misbrot, svo vid-

bjóds-

bjódsleg, sem þau eru, og sá ad øll þau vóru sér nú tilreiknud, Es. 53, 6-12. Ebr. 5, 7-9.

§. 7. *a*) Jesús var øldúngis saklaus, og vard ad lída, án þe's hann siálfur hefdi í nockru misbrotid edur syndgad.

Lúc 23, 4. Pilatus sagdi vid Kénnimanna Hofdíngjana og fólkid: Eg finn enga søk hjá þessari manneskju. Matth. 27, 4. 18. 19 23. 24.

*b*) Jesús géck med fúsum vilja undir pínuna, og af elsku og medaumkun yfir oss syndurum, eptir síns himneska fødurs rádi og vilja, þar vér annars hefdum eilíflega torthynst, vegna vorra synda.

Philipp. 2, 6-8 Þó ad Jesús Kristur væri í Guds mind, fór hann samt ecki med þad eins og þad væri herfáng, ad hann var líkur Gudi, heldur lítilleckadi hann siálfann sig, tók á sig þrælsmind; — og vard hlýdugur allt til dauda, já! allt til dauda á krossinum. Jóh. 10, 11. 18. Psálm. 40, 6-9.

*c*) Jesús leid pínuna í allra syndugra manna stad, og fyrir oss alla, svo hann gæti fridþægt fyrir vor mørgu afbrot, med ad þola þad straff, sem vér allir høfdum tilunnid; og med þvílíkum hætti

gat Gud fyrirgéfid oss syndirnar án þess ad gjöra móti réttdæmi sínu, eda skérda sitt lögmál, ellegar veikja sitt Herradæmi.

Matth. 20, 28. Jesús segir: manneskjunnar Sonur er ecki kominn til ad láta sér þjóna, heldur ad hann þjóni sjálfur, og útgéfi sitt líf til lausnargjalds fyrir marga. 1 Tim. 2, 5. 6. Jóh. 6, 51. Róm. 5, 7. 8.

Matth. 26, 28. Þegar ad því var komid, ad Jesús gengi til daudans, sagdi hann: mitt blód úthellist fyrir marga til syndanna fyrirgéfníngar. Ephes. 1, 7. 1 Cor. 15, 3. Esa. 53, 4 : 12. Ebr. 10, 1 : 14.

Eph. 5, 2. Kristur elskadi oss og gaf sig sjálfann út fyrir oss, til fórnfæríngar og slátrunar offurs, svo Gudi væri þad þócknanlegt. Ebr. 10, 1 : 22. 2 Cor. 5, 15. 21.

Merk: a) A gamla Testamentisins tídum vard ypparsti Prestur Gydínganna, eptir Guds skipun, á hinni stóru Fridþægingarhátíd, ad bera offur inní helgidóminn, til forlíkunar fyrir fólksins syndir. 3 Mós. b. 16, 1 : 28. En þetta offur átti ad fyrirminda fridþægjandi pínu og dauda Endurlausnarans,

arans, er koma skyldi, Gydíngum til advörunar og endurminníngar um þad straff, er syndin hafdi tilunnid. Ebr. 10, 1-4.

b) Þegar Jesús fórnfærdi ser siálfum til fridþægíngar fyrir heimsins syndir, sýndi hann, ad hann væri sá retti ædsti Prestur, hvörn Gud hafdi tilsett, og hann frambar þá forlikunar fórn, sem einsömul nægir, til eilífrar fridþægíngar fyrir alla. Ebr. 9, 11. 14.

c) Gamla Testamentisins fórnfæríngar aftókust öldúngis þegar Jesús Kristur offradi siálfum ser; en öll hjátrúarfull fridþægíngar-medöl, sem mennirnir höfdu siálfir uppfundid, og sem ætíd höfdu verid kraptalaus og einkis verd, fiellu þá af siálfum ser um koll, og urdu ad engu.

d) Vier egum ad leita nádar hjá Gudi einúngis vegna Jesú Krists, sem allt í einu hefir fullnægju giört fyrir alla menn, og med sinni pínu og dauda opnad öllum oss, adgáng til ad ödlast fyrirgiefníngu syndanna þegar vier snúum oss af hjarta og trúum á hann. Ebr. 4, 14-16. 7, 26. 27. 9, 24. 28. 10, 19-31.

§. 8. a) Jesús Kristur tók sitt líf aptur á þridja degi eptir sinn dauda, og uppreis úr gröfinni eins og hann hafdi sjálfur ádur fyrisagt; þar eptir var hann fjörutyi daga á jördunni hjá vinum sínum og lærisveinum, hvörra trú hann stadfesti med kenníngum og áminníngum.

Post. g. b. 1, 3 = 9. Eptir ad Jesús hafdi lidid pínuna, tédi hann siálfann sig Postulunum lifandi, med mørgum augliósum sannfæríngum, og lét þá siá sig um fiørutygi daga, og taladi fyrir þeim um þá hluti, sem heyrdu til Guds ríki. Post. g. b. 3, 13 = 15. Matth. 16, 21. 17, 21. 20, 17. 27, 63.

1 Cor. 15, 3 = 7. Kristur, sem dó vegna vorra synda, eptir Ritníngunum, og var grafinn, hann er upp aptur risinn á þridja degi eptir Ritníngunum, og er siedur af Kefa, og sídan af þeim tólf; því næst var hann siedur af meir enn fimm hundrudum brædrum í einu; af hverjum flestir vóru á lífi, þegar Postulinn Páll skrifadi þetta. Matth. 28, 1 = 20. Marc. 16, 1 = 16. Lúc. 24, 1 = 49 Jóh. 20, 1 = 31. 21, 1 = 25.

b) Eptir ad þeir fiørutygi dagar vóru lidnir, var sá uppriśni Jesús ecki lengur synilega nálægur á jørdunni, heldur fór hann upp til himna, ad ásjáandi lærisveinunum, eptir ad hann hafdi blessad þá og géfid þeim makt og myndugleika til ad útbreida sinn lærdóm medal allra þjóda.

Lúc. 24, 50-52. Þegar Jesús hafdi lokid tali sínu vid lærisveinana, fór hann med þá til Bethania, upplypti sínum höndum og blessadi þá. En þad skédi í því hann var ad blessa þá, ad hann skildist frá þeim, og vard uppnuminn í himininn, en þeir tilbádu hann, og snéru aptur til Jerúsalem med miklum fögnudi. Matth. 28, 18-20. Marc. 16, 19. Post. G. b. 1, 9-11. Ephes. 4, 8.

c) Þegar Jesús var til himins farinn, settist hann til hægri handar födurnum, hvad ed þýdir: ad hann tók til ad stjórna heiminum med sínum himneska Födur, svo ad allar skynsemdar-fullar sképnur ega ad játa, ad hann sé þeirra Herra, og ega ad tilbidja hann.

Phil. 2, 9-11. Gud hefir hátt upphafid hann, og gefid honum þá tign, sem er yfir öllum tignum, svo ad fyrir Jesú tign skulu öll kné beygja sig þeirra, sem á himnum og á jördu og undir jördunni eru, og allar túngur skulu játa, ad Jesús Kristur sé Drottinn, Gudi födur til æru. Eph. 1, 20-22.

d) Einkum er Jesús Kristur, ad því leiti, sem hann er Endurlausnari, síns safnadar andlegur Kóngur og Drottinn, þar ed hann ber umhyggju fyrir, ad ætíd séu þeir á jördunni, sem játi hans dýrd, og ad vantrúin ecki geti med vélum eda ofriki eydt þeim; hann hagar því líka svo, ad hans lærdómur útbreidist medal manneskjanna, þar, sem hann sér, ad hann fær framgáng til sannrar nytsemi.

Jóh. 18, 36: 37. Jesús játadi fyrir Pílato: mitt ríki er ecki af þessum heimi; og samt er eg Kongur; en þar til er eg fæddur, og þar til er eg í heiminn kominn, ad eg skuli bera vitni um sannleikann. Hverr, sem elskar sannleikann, sá heyrir mína rödd. Lúc. 1, 31: 33. 2, 11. 2 Sam. 7, 12. Psálm. 45, 7. 110, 1: 4. Esaj 53, 11. 12.

Post. G. b. 5, 31. Gud hefir upphafid hann til sinnar hægri handar til þess, hann sé leidtogi og lausnari, ad veita Israel aptur hvarf og syndanna fyrirgéfníngu. Matth. 16, 17. 18

e) Jesús er vor talsmadur hjá sínum himneska födur, og bidur fyrir oss,

oss, að sín endurlausn megi koma oss til gagns og nota, svo vér ecki syeirsorumst vegna vorra synda, heldur sáum náð til apturhvarfs, trúar og helgunar, og gét-um ødlast þá sáluhjálp, sem hann út-vegaði oss.

1 Jóh. 2, 1. 2. Vér høfum talsmann hjá føðurnum, Jesúm Kríst þann rétt-láta, hvørr að er forlikan fyrir vorar syndir, þó ecki einúngis fyrir vorar, heldur og lika fyrir allrar verald-r-innar (syndir.)

Ebr. 7, 25. Hann gétur gjørt þá ætíð sáluhólpna, sem hann lét koma til Guðs, því hann lifir æsinlega, til að biðja fyrir þeim. Róm. 8 34.

Merk: a) Með sinni upprisu og himna-før hefir Jesús sannað, svo eckert verður á móti hast, að hann er sendur af Gudi, og er í sannleika Guðs Sonur, eins og hann sagdist vera. Matth. 12, 38-40. Róm. 1, 4.

b) Þareð Jesús er uppeisinn frá dauð-um, og uppstiginn til himna, høfum vjer nú mestu fullvissu um, að Guð hefir álitið hans friðþægingu fullgylda, heiminum til endurlausnar, lika og, að eptir þetta muni koma betra líf, og að vorir likamir munu ecki æsinlega verða að engu, heldur, þegar þar að

kjemur, uppríſa úr dauptinu, til óforgengilegs lífs. Róm. 4, 25. 1 Cor 15. 12-34.

c) Ef vjer viljum hafa huggun af því, ad vjer vitum, ad Jeſús Kriſtur er vor andlegur Kóngur og Herra þá egum vjer, eins og hollir og dyggvir þegnar, ad heidra og elſka hann, og líka hlýda hans bodum; því þeir, ſem odruvíſi lifa, mega álítaſt eins og upphlaups-menn í hans ríki, og vænta þeſs, ad óhlýdni þeirra verdur ſtrøffud eptir makleglęikum. Matth. 7, 21-23.

Lærdómurinn um Jeſúm Kríſt og hans fridþægingu, er í ſtuttu máli útſkírdur í annari grein Trúarjátníngarinnar i Frædunum.



## Fimti Kapítuli.

### Um þad, hvørnig ſyndararnir verda hluttakandi í þeirri nád og ſálu-hjálp, ſem Kriſtur hefir þeim útvegad.

§. 1. Jeſús Kriſtur hefir ecki med ſinni endurlauſn gefid oſs leyfi til ad ſyndga; miklu heldur hefir hann því frem-ur ſkuldbundid oſs til ad fordaſt þad illa,

ſlla, og kappkoſta aſ ſremſta megni, ad láta oſs framfara í gódu.

Tit. 2, 11 - 14. Guds nád, ſem øllum mønnum er heilſuſamleg, hefir birtſt, og kénnir oſs ad afneita ógudlegu atæfi, og veraldlegum girndum, en liſa ſparlega, réttvislega og gudrækilega í heimi þeſſum, þar vér liſum í von um ſælu og dyrdlega auglyſingu hins mikla Guds, og vors Endurlauſnara Jeſú Kriſts, ſem ſjálfann ſig gaf í daudann fyrir oſs, til þeſs hann endurleyſti oſs frá øllu ránglæti, og hreinſadi oſs, ſvo vér ſeum hans ágætt fólk, koſtgæfid til gódra verka. Gal. 2, 17. 2 Cor. 5, 14. 15.

Merk: Hvørr, ſem rettilega þeckir Jeſú Kriſts endurlauſn, ſá uppørfaſt þaraf til þeſs meiri vidbjóds á ſyndinni; því þegar vjer athugum hvørr Jeſús Kriſtur var, og hvad mikid hann vard ad lída vegna vorra ſynda, þá er eins og afmálad ſe fyrir vorum augum, hvørſu andſtyggileg ſyndin ſe og ſú tíd muni koma, ad vjer verdum fyrir þúngri ſtraffi, ef vjer høldum áfram, og hættum ecki ad ſyndga, þó vjer vitum betur.

§. 2. Sérhvørr, ſem vegna Kriſts girniſt ad fá adgáng til Guds nádar og

og eilífa sáluhjálp, á med sønnu apturhvarfi ad, láta af syndunum, og med einlægri trú medtaka Jesúm Kristum Guds Son, syrir sinn endurlausnara, sinn lærimeistara og sinn Drottinn.

Lúc. 24, 47. Kristur skipadi, ad í sínu umbodi skyldi prédikast øllu fólki apturhvarf og syndanna fyrirgéfning. Post. g. b. 20, 21.

Jóh. 3, 36. Hvørr, sem trúir á Soninn hefir eilíft líf, en hvørr, sem ecki trúir á Soninn, skal ecki sjá lífid, því Guds reidi blifur yfir honum. Post. G b. 10, 43 Ebr. 5, 9.

Merk: Sannarlegt ángur og tregi fyrir syndirnar verdur ad gánga á undan, þegar trúin á Kristum á ad vera sølskalaus. Því gietur heldur enginn huggad sig med Jesú Krists fridþægíngu, nema sá, sem lætur af illu, og kappkostar ad fara dagvaxandi í því góda. Post. g. b. 2, 37-47. 3, 17-26.

§. 3 Til sannarlegs apturhvarfs útheimtist, ad vér med einlægri ydrun kennumst vid vorar ávirdíngar, bidjum Gud audmjúklega fyrirgéfníngar á þeim og alvarlega einsetjum oss framvegis ad betra meir og meir vort liferni.

2 Cor.

2 Cor. 7, 10. Sú hrigd, sem er eptir Gudi verkar apturhvarf til sáluhjálpar, hvørs engann ydrar. Lúc. 15, 21. 18, 13

Post. G b. 3, 19. Takid því sinnaskipti, og snúist, svo ydar syndir verdi afmádar. Psálm. 51, 3-25.

Merk: a) Manneskjan er optast fúsari á ad afsaka enn játa sínar ávirdingar, þess vegna mundi hún ecki heldur alvarlega ydrast syndanna, ef samvitskan kæmist ecki endur og sinnum vid af Guds orda krøptugnm áminningnm med samverkun heilags Anda; En þad stendur í sjálfsra vor valdi, hvort vjer eptirá viljum færa oss slíkar advaranir í nyt, og til frekari umþenkingar, ellegar útrýma þeim úr hjartanu, og standa þannig á móti Guds nád, hvar af vjer æ meir og meir forherdumst.

b) Manneskjan gjetur haft ángur af syndunum vegna hrædslu fyrir þeirra straffi, en einkanlega egum vjer knýjast til ángurs fyrir syndirnar, af blygdun vegna vors vanþacklætis vid hinn góda og gædskuríka Gud, sem ecki einasta elur oss og vidheldur af einskjærri nád, heldur og serílagi hefir látid kunngjöra oss í sínu heilaga ordi þá miklu sælu, sem Kristur hefir oss utvegad, og þar ad auki ecki heimtar annad af oss, enn þad, sem augljóslega horfir til vors sanna gagns, og til ad afvenda vorri eginn fortøpun.

c) Þegar ángrid vegna vorra synda er svo einlægt, ad vjer af alvøru fordumst þad illa, sem vjer drýgt høfum annadhvørt med þaunkum, ordum eda verkum, þá er oss eckert takmark sett hvad lengi þad skuli vara, edur hvad mikid þad skuli vera. Gud lítur einúngis eptir, hvørt vort ángur se einlægt ellegar ecki.

§. 4 Sannarleg trú á Jesúm Krist til sáluhjálpar er innifalinn í því, ad vèr høfum þad traust og huggunar athvarf til Jesú Krists vors Endurlausnara, ad þared hann med sínni pínu og dauda fridþægdi fyrir oss, muni Gud fyrirgèfa oss vorar syndir, svo framarlega, sem vèr ydrumst þeirra af øllu hjarta, og einsetjum oss, ad syndga ecki framvegis viljandi, heldur laga vorn lifnad eptir Jesú Krists heilaga lærdómi, og hlyda honum, sem vorum réttum Herra.

Ephes. 3, 12. Vegna Jesú Krists vors Drottins, høfum vèr djørfúng og adgáng til Guds, med trausti af trúnni á hann. Jóh. 6, 40.

Róm. 8, 33. 34. Hvørr vill ákæra Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir. Hvørr vill fordæma? Kristur

ur er sá, sem dáinn er, já miklu meira, sem líka er uppriſinn, ſitur vid Guds hægri hønd og bidur fyrir oſs.

Merk: a) Þad heyrir til trúarinnar á Jeſúm, ad vjer ſeum viſſir um, ad hann er i heiminn kominn, til ad uppſræda og endurleyſa ſyndugar manneſkjur; þó er þetta ecki nóg til ſannrar trúar, þvi ſá gjetur líka verid ſannſærdur um þetta, ſem med ſínu líferni afneitar honum í því ad hlýda ecki hans bodordum. Matth. 7, 21-23.

b.) Vjer verdum ad finna med ſjálfum oſs, hvørſu mjøg vjer þurſum Guds nádar vid, ef vjer viljum meta Kriſts endurlauſn eins og verdt er; því annars væri vor trú eckert nema køld játning med vørunum. Þeſs vegna er einúngis ſanna trú ad finna hjá þeim yðrandi, ſem þeckja hvad andſtyggileg ſyndin er, og hafa innilega laungun eptir Guds nád vegna Kriſts. Matth. 9, 12. 13.

c) Trúin getur verid veik medan hugſkotid [illegible] ecki neina uppliſgandi huggun af ad tileinka ſer Jeſú Kriſts fridþægingu, edur þá þad ſtundum ángraſt af hrædſlu og efaſemi; en hvilík trú er engu ad ſídur ſønn og Gudi þóknanleg, þegar hun audſýnir ſig med ſannarlegri laungun eptir Guds nád, vegna Kriſts, og kappkoſtar af fremſta megni, ad gjøra þad, ſem Gud vill. Marc. 9, 24.

d) Sú

d) Sú trú er dauð og ávaxtarlaus, sem ecki betrar hugarfarid, og ecki andsýnir sinn krapt í gudrækilegu líferni.

Sønn og lifandi trú á að sýna sig kroptuga og verkandi í dygdafullu líferni. Jak. 2, 14-20.

§. 5. a) Vér getum ecki af egin kroptum snúid oss og trúad, þared syndin hefir veikt oss, samt megum vér ecki forsóma, ad leggja allt kapp á vora sálar betrun.

Róm. 8, 8. Ad stunda þad, sem spillt náttúra vill, er fjandskapur í gégn Gudi, þar þad stridir í móti hans vilja; því hún hlýdir ecki Guds løgmáli, og getur ecki heldur gjørt þad. 1 Cor. 2, 14.

b) Heilagur Andi er ætíd reidubúinn til ad efla vora betrun, og láta oss framfara í því góda med Guds ordi, sem hann hefir sjálfur ingefid þeim heilogu skrifurum.

1 Cor. 6, 11. Postulinn Páll ber Korintu-mønnum á brýn, ad nockrir medal þeirra hafi ádur verid lastafullir, en nú, segir hann: erud þeir þvegnir, þér erud helgadir, þér erud réttlættir í nafni Drottins vors Jesú og af vors Guds Anda. Phil. 2, 13. Ephes. 3. 16.

Ebr. 13, 21. Fridarins Gud tilbúi ydur til allra góðra verka til ad gjøra hans

hans vilja, og verki það með yður, sem honum er sjálfum þócknanlegt, fyrir Jesúm Krist.

c) Af réttri brúkun Guðs orða fáum vér rétta þeckingu á Guðs vilja, og ødlumst krapt til að laga vorn lifnað eptir þeim, ef vér ecki sjálfir stondum á móti náð þess heilaga Anda, sem í hugskotinu verkar með Guðs orði, og uppvekur í samvitskunni þær áminningar, sem vér ecki megum viðurkéfja.

2 Tim. 3, 15-17. Þú kannt heilaga Ritníngu, sem getur uppfrædt þig til sáluhjálpar með trúarlærdóminum um Jesú Krist. Øll heiløg Ritníng er innblásin af Guði, og nytsamleg til lærdóms, til sannfæríngar, til leiðréttingar, til uppfrædingar í réttlætinu, svo að Guðs maður sé algjørr og til alls góðs verks hæfilegur.

Merk: Til að hafa Guðs orð rettilega um hønd útheimtist, að vjer heyrum það og lesum með gaumgæfni, og einlægum ásetníngi til að læra það, oss til betrunar og sáluhjálpar. Þegar vjer ecki þannig brúkum Guðs orð, fær heilags Anda náð eckert verkað í sálunni, þareð Guð, sem hefir gjefið oss fullt vit og frjálsræði, hvorki vill ne gjet-
ur

ur þvíngad oss til góds med þeirri makt, sem vjer ecki gjetum móti stadid.

§. 6. Umvendt og rétt trúandi kristin manneskja gétur, eptir því, sem Gud hefir í sínu ordi lofad, verid sannarlega fullviss um, ad hún er hiá Gudi, vegna Krists, réttlát ordin, og ad hennar fyrri syndir ecki tilreiknast henni, heldur skuli straffid fyrir þær, vera henni eldúngis eptirgéfid, þar ed Gud, vegna Krists, tileinkar henni, eins og hlýdnu barni og trúum þénara, aptur á mót sína nád og blessun.

Róm. 3, 24. 25. Vér verdum réttlættir án verdskuldunar af Guds nád med þeirri endurlausn, sem Jesús Kristur hefir afrekad, hvørn Gud tilsetti, ad hann skyldi vera sá nádar-stóll, hvar leita ætti fyrirgéfníngar á syndunum, fyrir trúna á hans blód, edur á hans pínu og dauda.

2 Cor. 5, 21. Þann, sem ecki vissi af synd, hefir Gud gjørt ad synd fyrir oss, edur í vorn stad látid fara med hann eins og sekann syndara, svo ad vér hans vegna yrdum réttlátir fyrir Gudi. Róm. 8, 1-4.

Merk:

Merk: Í heilagri Ritníngu brúkast ýmislegir talshættir, til ad sýna hvorninn til skuli gánga hjá þeirri syndugri manneskju, sem betrast á af heilags Anda nádar verkunum.

a) Ritníngin talar um Guds køllun til mannanna, sem er í því innifalin: ad hann í sínu ordi gjefur þeim tilefni til ad girnast þá endurlausn sem Kristur hefir utvegad, og þar ad auk leitast vid med ødrum hætti, svo sem med þjáníngum og velgjørníngum, ad uppvekja þá til ad þenkja um þeirra andlegt ásigkomulag. Matth. 9. 13. 11, 28. 1 Thess. 2, 12. Ps. 119, 71. Róm. 2, 4.

b) Ritníngin talar um upplýsíngu, og vill þar med láta skiljast, ad heilagur Andi uppfrædi vorn skilníng med ordinu, svo vjer fáum sanna þekkíngu um Guds rád og vilja, er vidvíkur syndugra manna betrun og endurlausn. Eph. 1, 18. Post. g. b. 26, 17. 18.

c) Med ordinu endurfædíng gjefur Ritníngin til kynna þad sæluſulla ástand, sem kristin manneskja kjemst í, þegar hún med sannri ydrun lætur af illu, og med rjettri trú á Kristum fær lyst og laungun til góds, edur verdur ad annari og betri manneskju, því þar med er eins og hún fædist ad nýju, þared hennar sinnislag og hugarfar snúast frá illu til góds, eptir Guds vilja. 1 Pet. 1, 3. Jóh. 3, 3. 2 Cor. 5, 17.

d) Þad sem Ritníngin kallar helgun, er trúads kristins manns dagleg framfør í dygdum og gudhrædslu, sem eblist af samverkandi náð

náð heilags Anda, með ydugligri brúkun Guðs orða, bæn og árvekni, 1 Tess. 5, 23. 2 Cor. 7, 1. Róm. 1², 1. 2.

Þriðja grein Trúar-játníngarinnar í Fræðunum, sýnir í stuttu máli, hvörninn heilagur Andi leiðir manneskjuna með sínum náðar verkunum og orðinu til sannarlegs aptuthvarfs og ávaxtarsamrar trúar á Jesúm Krist. En í annari bæninni í Fræðunum uppörfumst vjer til að biðja um aðitoð heilags Anda, svo vjer gjetum orðið sannir kristnir, er sýni sig verðuga að vera þegna í Krists náðar-ríki; og í þriðju bæninni verðum vjer minntir á þá hlýðni, sem vjer erum Guði um skyldugir, til að auðsýna með henni vora trú.



# Sjötti Kapítuli.

## Um trúarinnar ávexti í heilögu líferni.

§. 1. Þar af á að sjást hvört vor trú á Krist sé sönn og lifandi, að hún verkar í hjartanu hatur til allra synda, og þarámóti kröptuga eptirlaungun til

til ad breyta eptir Guds vilja í öll-
um hlutum, til ad þóknast honum.

Jac. 3, 18. 26. Sýn mér trú þína af
verkum þínum, því eins og líkaminn
er án andar daudur, svo er líka trú-
in daud, þegar hún er án verkanna.

Róm. 12, 9. Hafid andstygd á því,
sem vondt er, en haldid ydur fast
vid hid góda. Post. g. b. 15, 9.

Merk: a) Vjer getum ei forþjenad Guds
nád og eilífa sáluhjálp, þar vor bestu verk
eru ófullkomin, og Gud er sjálfur sá, sem gef-
ur kraptana til ad framqvæma þau. Lúc. 17, 10.

b) Þad lítid gott, sem vjer gjörum hjer
á jördunni med stórum vanmætti og breiskleika,
getur ecki komid í samlíkingu vid þá ómet-
anlegu gledi, hvörrar þeir gudhræddu mega
vænta í enn betra lífi. Þess vegna vill Gud
og svo, ecki vegna verka vorra, heldur af nád
sinni, gjöra oss sáluhólpna vegna vorrar trúar
á Jesúm Krist Róm 6, 23. Ephes 2, 8. 9.

c) Þad er öldúngis naudsynlegt, ad vjer
breytum eptir Guds vilja, þótt vjer ecki
þar med egum skilid ad fá hans nád, til þess
ad trúin sýni sinn krapt í gódum verkum,
því annars gietum vjer ecki ordid hæfilegir til
ad taka á móti þeirri sáluhjálp, sem Kristur
hefir útvegad oss. Jak 2, 14. Róm. 2, 7. 10.

§. 2 Sérhvad þad, sem Gud hefir
bodid oss, ad taka vara á, er vor

D skylda.

skylda. Í lögmálinu, sem út var gefid á fjallinu Sínaí eru þau almennilegu Skyldu verk í stuttu máli fyrirskrifud, og innifalin í þeim tíu bodordum, sem Gud baud Móísi ad rita á tvær steintöblur.

2 Mós. b 20, 1-17 Gud taladi öll þessi ord og sagdi: I. Þú átt ecki ad hafa annarlega Gudi fyrir mér. II. Þú átt ecki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma; því Drottinn mun ecki láta þann verda óhegndann, sem misbrukar hans nafn. III. Minnstú ad halda hvíldar daginn heilagann. IV. Heidra födur þinn og módur þína, svo þú lifir lengi í landinu. V. Þú átt ecki ad slá í hel. VI. Þú átt ecki ad drýgja hórdóm. VII. Þú átt ecki ad stela. VIII. Þú átt ecki ad bera falskann vitnisburd móti þínum náúnga. IX. Þú átt ecki ad girnast hús þíns náúnga. X. Þú átt ecki ad girnast þíns náúnga ekta-qvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustu-qvinnu, ellegar hans uxa, ellegar asna ellegar nockud, sem heyrir þínum náúnga til.

Merk;

Merk: Guds løgmál, sem er innifalid í þeim tíu bodordum, er ad sonnu einkanlega fyrirskrifad Gydíngum, en þad inniheldur samt þau skyldu-verk, sem serhvør manneskja á ætíd ad gefa gætur ad, því þau þjena til ad efla bædi vort egid og annara sanna gagn. Róm. 3, 31. 13, 8. 9.

§. 3. Sá er tilgángur allra Guds bodorda, eptir Krists egin útleggíngu, ad efla og stadfesta hjá manneskjunum framqvæmdarsama elsku til Guds, sjálfra þeirra og náúngans.

Matth. 22, 37-40. Jesús sagdi: þú átt ad elska Drottinn Gud þinn af øllu hjarta, allri þinni sálu, og øllu þínu hugskoti Þad er hid fyrsta og stærsta bodord; en hitt annad er þessu líkt; þú átt ad elska náúnga þinn eins og sjálfann þig. Í þessum tveimur bodordum er innifalid allt løgmálid og spámennirnir. Róm. 13, 10.

Merk: Þad er ecki nóg, ad vjer einúngis eptir voru náttúrufari gjørum eitt eda annad gott, sem kann ad vera oss gjedfeldt: ecki heldur er þad sannarlegt gódverk, þó vjer gjørum gott einúngis til ad fá hrós hjá mønnum, edur af ótta fyrir straffi og ráksóknum, ef þad væri ógjørt látid. Oss byrjar

jar í öllu, sem vjer gjörum, hafa þann tilgáng, að audsýna kjærleikann. Gal. 5, 6. 1 Jóh. 3, 23.

A.

## Um Skylduna vid Gud.

Vèr egum ad dýrka Gud, eins og vorn Skapara, Yfir-herra, stærsta velgjörara og elskuríkasta fodur, bædi innvortis í sálunni, med vorum þaunkum og girndum, og líka útvortis med ordum og athofnum.

1 Cor. 6, 20. Þèr erud dýru verdi keyptir. Vegsamid þess vegna Gud med ydar líkama, og med ydar öndu, sem Gud á. Malach. 1, 6.

Merk: Vjer egum einlæglega ad dýrka Gud, svo vjer ecki einúngis bidjum hann, lofum hann, og þockum honum med ordunum, edur audsýnum honum útvortis lotníngu; heldur byrjar oss líka einkum ad audmýkja oss fyrir honum í hjartanu, óttast hann og elska, líka sýna lyst og laungun í öllu voru framferdi til ad breyta eptir hans vilja; því annars verdur vor Guds dýrkan ad hræsni, sem fyrir þeim alvísa og heilaga Gudi, er mesta audstygd. 1 Sam. 15, 22. 23. Esa. 1, 21-18. Matth. 6, 1-18. 13, 13-33 Marc. 7, 1-13.

I. Innvortis Gudsdýrkanin.

§. 1. a) Vèr egum ad tilbidja Gud einann, því hann er vor Skapari, og sá einasti sanni Gud. Matth.

Matth. 4, 10. Jesús sagdi: Drottinn Gud þinn áttú ad tilbidja, og dýrka hann einann. Psálm. 99, 5.

*b*) Hvørr, sem réttilega tilbidur Gud, á med audmjúkri lotníngu vidurkénna hans allrastærstu fullkomlegleika, halda hann fyrir hid stærsta góda, og líka vid sérhvørt tækifæri audsýna í verkunum, ad hann vyrdir Gud yfir alla hluti fram.

Psálm. 99, 5. Upphefjid Drottinn vorn Gud, og tilbidjid fyrir hans fótskør, því hann er heilagur,

§. 2. *a*) Vér egum ad óttast Gud, því hann er heilagur og réttlátur.

Préd. 12, 13. Ottastú Gud, og haldtú hans bodord, því þad ber øllum mønnum ad gjøra. Post. g. b. 10. 35.

*b*) Gudhrædslan á ad sýna sig í því, ad vér tøkum oss umhyggjusamlegann vara fyrir því, sem vér holdum Gudi sé á móti.

Ordsqv. b. 16. 6. Af ótta fyrir Drottni fordast menn hid illa.

*c*) Vér megum ecki óttast Gud eins og óviljugir þrælar, af qvída fyrir straffinu, heldur eins og hlýdin børn

þvi hann er svo gódur og gædskurikur fadir.

Róm. 8, 15. Þér hafid ecki medtek-id þrældóms lunderni, ad þér þyrft-ud aptur ad verda hræddir, heldur hafid þér fengid óska-barna hugar-far, af hvørju vér køllum: Abba elskulegi Fadir! 1 Mós. b. 39 9.

§. 3. a) Vér egum ad elska Gud yfir alla hluti fram, þvi hann er vor stærsti velgjorari, og af Kristi fridþægd-ur fadir.

1 Jóh. 4, 19. Látum oss elska hann, þvi hann elskadi oss ad fyrra bragdi, 1 Jóh. 5, 6.

b) Elskan til Guds úrheimtir, ad hugurinn innilega gledji sig af honum, og finni hjá sér stærstu laungun eptir ad þócknast honum, med þvi ad breyta eptir hans vilja.

1 Jóh. 5, 3. J þvi er elskan til Guds innifalin, ad vér høldum hans bodord, en hans bodord eru ecki þúng. Psálm. 18, 2.

§. 4. a) Vér egum ad hlyda Gudi, þvi hann er ecki einúngis vor ædsti, heldur og líka sá vísasti og besti Yfirherra.

Jér.

Jér. 11, 4. Drottinn sagdi: hlýdid mér og gjørid allt, sem eg hefi bodid ydur, þá skulud þér vera mitt fólk, og eg skal vera ydar Gud. Post. g. b. 5, 29.

b) Hlýdnin vid Gud er í því innifalin, ad vér ætíd med fúsum vilja leggjum allt kapp á, ad laga vort sinnislag og framferdi eptir Guds vilja til ad þóknast honum, og alvarlega taka oss vara fyrir því, ad brjóta hans bodord af ásetníngi.

Psálm. 143, 10. Drottinn! kénn þú mér, ad gjøra þad, sem þú vilt, því ad þú ert minn Gud. 1 Pét. 1, 14. 15.

§. 5. a) Vér egum ad reida oss uppá Gud, því hann bædi vill og getur géfid oss tímanlega, andlega og eilífa velferd.

1 Pét. 5, 7. Kastid allri ydar áhyggju uppá Drottinn, því honum er annt um ydur. Psálm. 55, 23.

b) Ad reida sig uppá Gud er sama, sem ad treysta honum, og er innifalid í því, ad vér séum fullkomlega sannfærdir um, ad Gud, vegna Jesú Krists, vilji gjøra oss hluttakandi í øllu því góda, sem hann hefir lofad oss í sínu

ordi, líka ad hann, eptir sinni alvísu rádstofun, vilji veita oss sína hjálp med besta máta, og á haggvæmustu tíd.

Psálm. 146, 5. 6. Sæll er sá, hvørs hjálp Jacobs Gud er, sá sem hefir stadfasta von til Drottins síns Guds, sem gjørdi himininn og jørdina, og sjóinn og allt þad, sem er í þeim; til hans, sem heldur trygd æfinlega. Jér. Harmagr. 3, 25. 26. Róm. 8, 32.

## Af øllu þessu fylgir þá framvegis:

§. 6. Vér megum ecki tilbidja neitt annad í stadinn fyrir sannann Gud, hvørki engla, né helga menn, né sól, né túngl, né bílæti, ellegar neitt annad þvílíkt, og ecki heldur reida oss uppá þad, í stadinn fyrir ad setja vort trúnadartraust til þess sanna Guds, því hann er einúngis vor Drottinn og Skapari; annars syndgum vér á móti fyrsta bodordinu, og gjørum oss seka í afgudadyrkun.

2 Mós. b. 20, 3. 4. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad hafa annarlega Gudi fyrir mér. Þú mátt ecki smída þér neina útheggna edur annars slags mind eptir því, sem er á himnum uppi, ellegar

ugar á jørdunni nidri, ellegar í vøtnunum undir jørdunni; þú átt ecki ad tilbidja edur dýrka þad. Esa. 42, 8. Post. g. b. 17, 29.

§. 7. Vér megum ecki elska sjálfa oss, ellegar neitt annad meir enn Gud, eda jafnt Gudi, ecki heldur megum vér treysta uppá sjálfa oss, adra menn, ellegar adra hluti, meir enn uppá Gud, vegna þess hann einn er vor almáttugi og stærsti velgjørari.

Jér. 17, 5. Svo sagdi Drottinn: bølvadur veri sá madur, sem treystir uppá manneskjuna, og hefir holdid fyrir sinn arm, ellegar heldur, ad sér sé óhætt med vanmáttugrar manneskju varatekt, og hvørs hjarta víkur frá Drottni.

Ordsqv. b. 3, 5. Treystú Drottni af øllu þínu hjarta, enn reiddú þig ecki fast á þitt hyggju vit.

§. 8. Vér egum dagleg a ad strída móti þeim syndsamlegu girndum, sem Gudi er á móti, og aldrei brjóta hans bodord af ótta fyrir mønnum, edur elsku til þeirra, því hann er sá heilagur Gud, hvorn vér egum ad óttast, og ecka sá gódur og vísdómsfullur Drottinn, sem

 vér

vèr egum ad elska og hlyda framyfir alla hluti.

1 Jóh. 2, 15-17. Elskid ecki verøldina, og ecki heldur þá hluti, sem í henni eru; ef nockurr elskar verøldina, þá er elska til fødursins ecki í honum, því allt þad, sem í verøldinni er, sem er lyst holdsins og fýsn augnanna og drambsamt líferni, þad er ecki af fødurnum, heldur af verøldinni. Verøldin forgengur, og hennar lystingar, en sá, sem gjørir eptir Guds vilja, blífur ad eilífu.

Ordsqv. b. 1, 10. Son minn! þegar illir skálkar locka þig, þá fylg þeim ecki.

§. 9. Vèr egum ad audsýna vorum náúnga einlæga elsku, til merkis um ad vèr án yfirdrepskapar elskum Gud, sem vill ad kjærleikurinn sè eins ríku. hjá oss, eins og hann er hjá sjálfum honum; þaradauki egum vèr ad leggja kapp á, ad breyta eptir Guds vilja í øllum hlutum.

1 Jóh. 4, 21. Þetta bodórd høfum vèr af honum, ad hvørr, sem elskar Gud, hann á líka ad elska sinn bródur. 1 Jóh. 3, 17. 18. 4, 7-13.

1 Jóh. 2, 5. Hvørr, sem hans ord vardveitir, í honum er sannarlega elsk-an til Guds fullkomin. Jóh. 15, 14.

Merk: Þau skylduverk, sem vidvíkja innvortis Gudsdýrkun, eru í stuttu máli innfærd í Lúthers útleggingu yfir fyrsta bodordid í Frædunum.

II. Utvortis Gudsdýrkanin.

§. 1. a) Vér egum ad lofa og vegsama Gud, því hann er sú fullkomnasta og ædsta vera.

Psálm. 72, 18. 19. Lofadur veri Drottinn Gud, Ísraels Gud, hann sá einn gjørir dásemdarverkin; og blessud sé hans dýrdarfulla hátign ad eilífu, og øll lønd uppfyllist med hans dýrkun.

b) Gud lofast og vegsamast, þegar vér annadhvørt med bænum, sálmum edur samtali vid adra, hrósum Guds ypparlegu eginlegleikum, og miklu dásemdarverkum af klockt hugar-þeli, sem fullt er af heilagri lotníngu fyrir honum.

Psálm. 145, 3. 4. Mikill er Drottinn, og mjøg loflegur; hans makt er óransakanleg. Sérhvør kynslód mun fyrir annari hrósa þínum verkum, Drottinn! og kunngjøra þitt veldi.

§. 2. a) Vér egum ad þacka Gudi, þvi hann veitir oss svo mikla velgjørnínga, og audsýnir oss svó mikla nád vegna Jesú Krists.

Eph. 5, 20. Þackid ætíd Gudi Fødur fyrir alla hluti í nafni vors Drottins Jesú Krists. 1 Teß. 5, 18.

b) Ef vér egum ad géta þackad Gudi réttilega, þá ber oss ad kannast vid, og audmjúklega játa, ad Guds mikla miskunsemi vid oss er lángtum meiri enn vér h-fum tilunnid, og þaradauki egum vér ad færa oss hans velgjørnínga réttilega í nyt, e ns og hann hefi- ætlad.

Psálm. 118, 1. Þackid þér Drottni, þvi hann er gódur, og hans miskunsemi varir eil:flega. Psálm. 105, 1.

§ 3. a) Vér egum ad bidja Gud og ákalla hann, þvi hann einn ræður fyrir vorri tíman.egri og eilífri velferd, þar Kristur, vor talsmadur, hefir einnig opnad oss adgáng til hans, svo sem vors gædskuríkasta og elskufulla fødurs.

Lúc. 11, 9. Jesús sagdi: bidjid, þá mun ydur géfast; leitid, þá munud þér finna; knýid á, og mun fyrir ydur upplokid verda. Psálm. 50, 15. 145, 18. 19.

b)

b) Þad heitir bæn og ákallan, þegar vér framberum fyrir Gud, annadhvort í huganum edur med munninum vorá laungun eptir einhvorju gódu, sem oss er lofad í hans ordi, og sem oss sýnist naudsynlegt til vorrar egin edur annara velferdar

1 Jóh. 5, 14. Þessi er sú djørfúng, sem vér høfum til hans, ad ef vér bidjum um nockud eptir hans vilja, þá heyrir hann oss.

§. 4. Þared Sunnudagurinn er tilskickadur til opinberrar Guds-dýrkunar, þá á sérhvørr kristinn madur ad fara til kirkju, sér og ødrum til uppbyggingar af Guds orda heyrn og lestri, líka uppbyggingar af því, ad lofa Gud og þacka honum sameiginlega med ødrum sínum samkristnum, svo þeir innbyrdis stadfestist í dygd og gudhrædslu; og ecki á ad hindra oss, nema sjúkdómar, edá onnur þvílík forføll, sem ecki verdur hjá komist.

2 Mós. b. 20, 8. Drottinn sagdi: minnstú ad halda helgann hvíldardaginn. Lúc. 11, 28.

Col. 3, 16. Látid Krists ord búa ríkuglega medal ydar, svo ad þér kennid

og áminnid ydur siálfa innbyrdis med allslags visdómi, og syngid fagra psálma, lofsaunga og andleg qvædi fyrir Drottni i ydar hiörtum. Ebr. 10, 25.

Hér af fylgir enn framar:

§. 5. a) Vér megum hvørki brúka Guds nafn gálauslega né athugalaust, allraíst vanheidra þad med nockursslags misbrúkun; miklu heldur ecum vér skyldugir til ad lofa og vegsama Gud.

2 Mós. b. 20, 7. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad leggja nafn Drottins Guds þíns vid hégóma; því Drottinn mun ecki láta þann óhegndann, sem misbrúkar hans nafn.

b) Guds nafn vanheidrast med ad formælar, þegar vér annadhvert í Guds eda Krists nafni óskum ills siálfum oss edur odrum. Sliikar formælingar géta og skéd med mørgu ødru móti, sem auglýsir allteins blygdunarlaust sinnislag, ec ecki sýsist neins í Guds allraheiloguftu nálægd, né géfur gaum ad, hvørju mjøg hvør ein manneskja á ad elska siálfa sig og náúngann.

Jac. 3, 10. Af sama munni framgéngur bædi blessan og bølvan. Brædur min-

mínir! þetta má ecki svo tilgánga. Róm. 12, 14.

*c*) Guds nafn vanheidrast med ad sverja, þegar einhvørr í daglegu tali gálauslega vitnar til Guds eda Krists, til ad stadfesta þar med ord sín.

Matth. 5, 34-37. Þér skulud øldúngis ecki sverja, en ydar ræda skal vera já, þegar játa skal, og nej, þegar neita á, þvi hvad, sem þar er framyfir, er vondt.

§. 6. *a*) Þegar vér egum opinberlega ad sveria, megum vér ecki gleyma því, ad sá alvísi Gud, hvorn vér kollum til vitnis, er bædi réttlátur og heilagur Gud, sem hatar allt óhreinlyndi, og ad hann mun hardlega straffa þá, sem sverja ránglega því þeir vanbrúka hans nafn til ad hylja med íllsku og rángindi.

2 Mós. b. 20, 16. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad bera falskann vitnisburd á móti þínum náúnga

Zach. 5, 4. Eg lét bølvun útfara, segir Drottinn Zebaoth, svo hún komi yfir þjófsins hús, og þess, sem sver ránglega vid mitt nafn. Mal. 3, 5.

*b*) Menn sverja eid eptir yfirvaldsins skipun, stundum til stadfestingar uppá ad vér

vér skulum ekkért segja edur vitna annað enn það, sem vér vitum fyrir víst, að satt er; og stundum til fullvissu um, að vér viljum trúlega lifa eptir því, sem oss er fyrisett, og vér höfum undirgengist.

Ebr. 6, 16. Manneskjurnar sverja við þann, sem er æðri enn þeir sjálfir, og sá eidur gjörir enda á allri þrætu til að fá fullvissu. 5 Mós. b. 6, 13.

c) Hvørr, sem fremur meinsæri, eda svér ránglega, kann að álitast ecki einasta eins og blygðunarlaus guðlastari, vegna þess hann manar hins alvísa Guðs réttlæti móti sér, heldur og líka eins og fjandmaður sinna samkristinna, hvørra velferð og æru hann opt spillir, svo sá saklausi verður fyrir hallanum, en hinn seki sleppur óhegndur, og fær aptur tækifæri til að koma meiru illu af stað.

1 Tím. 1, 10. Postulinn Páll leggur meinsæris menn að jöfnu við morðíngja og verstu illvirkja.

§. 7. Vér megum ecki fara með galdur, sem er hjátrúar- og og heimskufull vanbrúkun á Guðs nafni eda Guðs orði, til að fremja kukl, eda særa, ellegar til annara slíkra heimskulegra fyrirtekta, af rángri

rángri ímindun um, ad menn med þessu gëti lœknad manneskjur eda fënad, sÿnt hvorr stolid hafi, varnad tjóni og ólucku, eda annad þvílíkt.

5 Mós b. 18, 10: 12. Enginn á ad finnast hjá þèr, sem fer med spádóma, edur er dagveljari, ellegar tekur mark á fugla qvaki, ellegar fremur kukl, edur særinga-madur, ellegar fer til spásagnar-manna, ellegar útþÿdir fyrirburdi, ellegar leitar frètta af framlidnum; því hvørr, sem slíkt gjørir, er andstyggilegur fyrir Drottni.

§. 8. a) Vèr megum ecki vanhelga hvíldar-daginn med ónaudsÿnlegri vinnu, því þann dag egum vèr sèrílagi, eptir Guds bodi, ad halda heilagann med andakt og gudrœkilegum umþenkingum.

Psálm. 95, 1. 2. Komid! látum oss med gladværd lofsÿngja Drottni, látum oss af føgnudi hátt lofsÿngja vorum volduga Frelsara; látum oss koma fyrir hans ásjónu med þackargjørd!

b) Pad er sanngjarnlegt og Guds vilja samqvæmt, ad sunnudagurinn sè mønnum og skëpnum til hvíldar, og endurlífgunar eptir vinnu þeirra. Þess vegna

vegna kallast líka þessi dagur, sem kristnir menn halda heilagann, í Krists upprisu minníngu, enn þá hvíldardaaur.

2 Mós. b. 23. 12. Sex daga skaltú verk þitt vinna, en sjöunda daginn áttú ad hafa fyrir hvíldar-dag, svo ad þinn uxi og þinn asni géti fengid hvíld, og þinnar ambáttar sonur, og sá framandi gétur endurnært sig. 2 Mós. b 20, 8, 11.

Merk: Skyldu-verkin, sem vidvíkja útvortis Guds dýrkun, eru stuttlega útmálud í ödru og þridja bodordum frædanna.

## B.

## Um Skylduna vid sjálfa oss.

Vér egum ad elska sjálfa oss, og einkanlega láta oss vera annt um vorrar sálar velferd, líka egum vér ad stunda eptir sannarlegu gagni líkama vors, sem og ad efla med leyfilegum hætti vora tímanlega velferd, eins og samqvæmt er Guds ordi og vilja.

Matth. 6, 33. Jesús sagdi: leitid fyrst Guds ríkis, og þess réttlætis, sem honum er þócknanlegt, þá munud þér fá í vidbót allt, sem þér medþurfid.

Merk:

Merk: Manneskjan elskar sig ecki sjálfa rettilega, þegar hún sækist einúngis eptir ad sedja sinar jardneskar girndir, án þess ad hirda um sína sáluhjálp, eda gefa gætur ad því, sem hún er bædi Gudi og ødrum mønnum skuldug um.

*I.* Umhyggja fyrir sálunni.

§. 1. Ver egum ad láta oss vera umhugad um, ad vor skynsemi upplýsist meir og meir, med nytsamlegri þeckingu, serdeilis um Guds vilja og hans rád til vorrar sáluhjálpar.

2 Pét. 3, 18. Vaxid í vors Drottins og endurlausnara Jesú Krists nád og þeckingu. Ordsqv. b. 2, 10. 11. 1 Cor: 14, 20.

§. 2. Vér megum ecki láta vorn vilja stjórnast af neinum vondum tilhneigíngum, heldur egum ver af fremsta megni kappkosta ad laga þær eptir því, sem vorri skynsemi sýnist ad vera rétt og tilheyrilegt, eptir Guds orda reglu.

Ordsqv. b. 16, 32, Sá, sem stjórnar gedi sínu, er betri enn sá, sem yfirvinnur borgir. Gal. 5, 24.

§. 3. Vér megum ecki affaka vorar ávirdingar, heldur keppast eptir, eins

og

og Gud hefir látid Krist kénna oss, ad sjá æ meir og meir vid þeim og afleggja þær.

2 Cor. 7, 1. Med því vèr höfum þvílíkt fyrirheit, mínir elskanlegir! þá látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og höldum áfram í helguninni med gudhrædslu. 1 Jóh. 1, 6.

§. 4. Vèr egum med gaumgæfni ad vaka yfir samvitsku vorri, svo vèr ecki vísvitandi ofþýngjum hana med neinni synd.

Post. G. b. 24, 16. Postulinn Páll sagdi: eg æfi sjálfann mig í ad hafa jafnan óstèrdta samvitsku fyrir Gudi og mönnum.

§. 5. Vèr egum opt ad þenkja um daudann, sem skjótt gètur ad óvorum yfirfallid oss, þó svo, ad vèr hvorki skèlfumst af honum, ellegar lifum med sorg og órósemi, heldur á þad ad þèna til þess, ad vèr því betur undirbúum oss í sonnum Guds ótta til sáluhjálplegrar burtfarar.

2 Cor. 5, 8 9. Vèr erum hughraustir, og höfum miklu meiri lyst til ad vera fjarlægir frá líkamanum, og heima hjá Drottni. Þess vegna kappkostum vèr líka, hvört sem vèr erum heima

edur

edur fjærverandi ad vera honum þóckn-
anlegir. Psálm. 90, 12. Phil. 1, 23.

*II.* Umhyggja fyrir líkamanum.

§. 1. Vér megum hvørki med á-
setníngi taka sjálfir af oss lífid, sem er
sú ypparsta gáfa, er Gud hefir géfid oss,
né viljandi skada vora limu, edur heilsu,
því þar med reynum vér til med heimsku-
légri ofdirsku ad taka rádin af Gudi,
sem einsamall hefir vald yfir lífi og líkama
manneskjunnar, en sviptum náúngann
þeirri adstod, sem hann med rétti má tti af
oss heimta; þaradauki breytum vér svo-
grimdarlega vid sjálfa oss, ad ecki finnast
dæmi til slíks medal ólmustu villudýra.
Róm. 14, 7. 8. Enginn af oss hefir
rád á ad lifa edur deyja eptir vild sinni,
því hvørt sem vér lifum, þá erum vér á
Drottins valdi, ellegar deyjum, þá er-
um vér eins í Drottins valdi, þad er ad
skilja: hvørt, sem vér lifum ellegar
deyjum, þá á Drottinn rád yfir oss.
1 Cor. 6, 19. 20. 1 Sam. 31, 4.
2 Sam 17, 23. Matth. 27, 5.

§ 2. Vér egum ad fordast allt óhóf
í mat og dryck, sem einúngis spillir heils-
unni, og eydir vorri formegun, en gjörir

oss

oss óhæfilega bædi til ad lofa Gud, og líka vinna þad, sem oss ber ad gjöra.

Lúc. 21, 24. Jesús sagdi: Varid ydur sjálfa ad ydar hugskot aldrei ofþyngist af ofáti edur ofdrykkju. Róm. 13, 13. Gal. 5, 21. Ofdrykkja og ofát teljast med þeim hlutum, um hvörja Postulinn Páll segir: ad þeir, slíkt gjöri, muni ecki ödlast Guds ríki. Ordsqv. 23, 20. 21.

§. 3. Vér egum ad halda oss frá hórdómi og allsláags lauslæti, bædi innvortis í þanckunum og útvortis med verkinu, því þar af spillist líkaminn, og sálin saurgast, svo hún verdur óhæfileg til ad hugsa um nockud gott, og missir alla laungun eptir dygd og Guds ótta, en audsýnir þvi frekar sínar saurugar girndir í ordum og vidmóti odrum til hneyxlis.

2 Mós. b. 20, 14. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad drýgja hór. Matth. 5, 27. 28.

1 Thess. 4, 3-5. Sá er vilji Guds, ad þér helgist, og umflýid hóranir, svo hvör og einn stundi ad halda sínum líkama í hreinlífi og sóma, en ecki girndar-bruna, eins og Heidíngjarnir, sem ecki þeckja Gud.

Eph.

Eph. 5, 3-5. Eptir sem heiløgum hæfir, á hvørki fillulisi né nockurs-konar óhreinleiki edur ági ni svo mikid, sem nefnast medal ydar, né biygdunar-leysi, né fiblsiegt hjal, edur gárúnga-háttur, hvad ecki er sómasamlegt, held-ur miklu framar packargjørd; því pad vitid pér ad enginn fillulifis madur, edur óhreinn, edur ágjarn, hvørr ad er skurdgoda-dyrkari, hefir hlutskipti í Kristis og Guds riki. 1 Cor. 6, 15-20.

Merk: Í Frædunum er vid sjötta Bodordid stutt útskíring um kristilegt skírlífi, og í sjöttu Bæninni finnst uppørfan til ad bidja Gud um rád og styrk, ad standa á móti þeim freistingum, sem í þeim efnum kynnu mæta oss.

## *III.* Umhyggja fyrir vorri tímanlegu Velferd.

§. 1. *a*) Vér egum kappkosta ad ebla vora velgengni, bædi med ástundun í voru rétta kalli og embætti, og med forsjállegri sparsemi, svo sjálfum oss til gagns, sem og líka til ad géta hjálpad ødrum, er vidþurfa.

Post. G. b. 20, 34. 35 Postulinn Páll segir til Ephesieskra: þér vitid sjálfir ad þessar hendur hafa fyrir mér unnid til minn-

minnar nauðþurftar, og þeirra, sem med mér vóru. Alt sýnda eg ydur, ad svo byrjar oss ad vinna og veika ad annast, og minnast orda Drottins Jesú þar hann sagdi: sælla er ad gefa en þyggja. 1 Tim. 6, 17. 18.

*b*) Í því ad stunda gagn vort, eigum vér ad varast ósæglegann ávinning edur ágirnd, og ecki sækjast eptir audæfum, sem opt misbrúkast til ofmetnadar og óhófs. 1 Tim. 6, 9. 10. Þeir sem ríkir vilja verda, falla í freistni og snørur, og margslags heimskulegar og skadnæmar girndir, sem mañeskjunum søckva í eydileggingu og tøpun, því ágirndin er rót alls ills. Lúc. 12, 15. 1 Cor. 6, 10.

§. 2 *a*) Vér eigum ad kíppast eptir ad áviña oss heidur, vera í afhaldi og reiknast til úverdugir af vorum medbrædrum, þo samt ecki med odru enn rádvendni og kostgæfni í vorri rétta kalli og embætti. Philipp. 4, 8. Kjærir bræđur! hvad sem sannarlegt er og sidsamlegt hvad réttvist er, hvad skírlíft er og ástjamlegt, hvad sem er gott afspurnar, hvad dygdugt er, hvad hrósverdt er, hugsid þar eptir.

*b*) Þétt

b) Þótt vèr høfum ødlast allann þann heidur, sem vèr æskja kunnum, megum vèr samt ecki falla til metnadar edur drambsemi, heldur alltíd stunda kristilegt lítilæti, því vèr egum ad vita, ad alla hluti høfum vèr af Gudi þegid, og ad oss yfirsiest optlega, svo vèr þurfum fyrirgéfníngar vid.

Gal. 5, 26. Látum oss ei sækja eptir hégóma hrósi, og hvørki øgra hvørr ødrum, nè øfunda hvørr annann. Róm. 12, 10.

1 Pét. 5, 5. Verid skrýddir med lítilæti, því Gud mótstrídur drambláttum, en lítilátum géfur hann náð. Matth. 23, 12. Ordsqv. b. 29, 23.

§. 3. a) Vèr megum njóta ánægju í þessu lífi, af því ad brúka rèttilega þá mørgu gódu hluti, sem Gud hefir sínum skepudum skèpnum til gagns og gledi géfid, líka høfum vèr mikla ánægju af vinnu vorri, þegar vèr tilbærilega og med gladværu sinnislagi gjørum hana.

Psálm. 31, 8. Gledja skal eg mig, Drottinn! og vera gladvær af þinni miskunsemi. Phil. 4, 4. Ordsqv. b. 17, 22.

*b*) Í vorri gledi egum vér ad taka ofs vara fyrir øllu því, sem skeldir á móti gódri sidsemi, edur því, sem Gud hefir bodid í sínu ordi, og ecki álíta hana svo sem hefsta tilráng vinnu vorar, heldur svo sem ávøxt af henni

1 Cor. 7, 31. Þeir, sem brúka þenna heim, ega ad vera eins og þeir, sem ecki misbrúka hann.

§. 4. *a*) Vér egum ad audsýna ofs þolinmóda í mótlætinu, svo vér hvorki orvæntum né látum til ver heyra vhl og harma-tolur,, heldur seum ánægdir med þad, sem Gud vill vera láta, í vissri von um, ad hann ecki uppáleggi ofs þyngri byrdi, enn hann sjálfur vill aefa ofs krapta til ad bera, og trúum stadfastlega, ad eptir hans tilætlun skuli þetta ani streymi þéna ofs til gagns og góda.

Ebr. 10, 35. 36. Kastid ecki burt ydar ørugga mód, hvørr mikil laun mun ødlest; því þér þurfid á stødugglyndi ad halda, svo ad nær þér hafid gjørt Guds vilja, fáid ad ødlast þad, sem ydur hefir verid lofad. Róm. 8, 18.

*b*) Vora þjáníngar geta opt orsakast med ymsu móti af sjálfum ofs, en

sá

sá alvísi Gud lætur oss þær ad höndum koma, til þess, ver athugum vora bresti, betrum vorn lifnad, höldum voru sinni þvi meir frá hégóma veraldarinnar og lærum ad leita vorrar kjærustu gledi af ad halda oss til hans med bæn og andakt.

Ebr. 12, 5. 6. Minn son! vird ecki lítils typtun Drottins, og ørvæðnast ecki þá hann ávítar þig; þvi hvørn, sem Drottinn elskar, þann agar hann. Psálm 119, 7. Róm. 5, 3. 5.

§. 5. Vér egum ad fordast allt ydjuleysi, hvort ad er orsök til mikils ills, og taka oss vara fyrir ad vera ødrum til þýngsla, heldur egum vér þarámót med kostgæfilegri ydni og ástundun, hvørn í sínu standi, ad leita vorrar atvinnu, þvi Gud hefir gefid oss kraptana til þess, ad vér skulum brúka þá, og efla þar med vort egid og annara gagn.

1 Thess. 4, 11. 12. Vér áminnum ydur, kjærir brædur! ad þér kostgæfid ad lifa í spekt, og ydvart egid ad stunda, og ad vinna med ydar egin høndum, eins og vér høfum bodid ydur, svo ad þér getid sómasamlega umgengist þá, sem ecki eru af søfnudinum, og ad þér

skud uppá engann komnir. 2 Thess. 3, 11. 12. 1 Pét. 4, 11.

## C.

## Um Skylduna vid Náúngann.

Vér erum skyldugir ad elska vorn náúnga eins sølskalaust og sjálfa oss, þessvegna egum vér ad breyta svo vid hann, eins og vér viljum ad hann breyti vid oss. Þar fyrir egum vér ad bera umhyggju bædi fyrir hans Sálu, hans likama og hans tímanlegri velferd.

Matth. 7, 12. Jesús sagdi: hvad sem þér viljid ad mennirnir gjøri ydur, það egid þér lika þeim ad gjøra, því svo er kennt í løgmálinu og spámanna bókunum. 3 Mós. b 19, 18.

Merk: Serhvørr sá, sem er manneskja, er lika vor náúngi og hefir sama rett eins og bródir til kjærleika vors og þjenustusemi, hvørt sem hann er innlendur eda útlendur, kristiinn eda gydíngur, tyrki eda heidíngi, vinur eda óvinur, ædri eda lægri stiettar, rikur edur fátækur, og þegar hann þarf hjálpar vid af oss, þá erum vjer skyldugir til ad hjálpa honum af fremsta megni án manngreinar álits. Lúc. 10, 25 = 37. Post. g. b. 17. 26.

I. Um=

I. Umhyggja fyrir sálu Náúngans.

§. 1. Vèr egum, svo mikid sem oss er mogulegt, ad greida veg vors náúnga til betra lífs í ødrum heimi, og þessvegna hiálpa honum bædi med nytsamlegri tilsøgn, gódum áminníngum, kjærleiksfullum advørunum, og umfram allt med gódu eptirdæmi, því Kristur hefir endurleyst hann eins og oss, til þess ad hann ásamt med oss skyldi eignast eilífa sáluhjálp.

Jac. 5, 19. 20. Brædur mínir! ef nockurr á medal ydar villist frá sannleikanum en einhvørr umvendir honum, sá skal vita, ad hvørr, sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa sálu frá daudanum, og hylja fjølda af syndum. 1 Þess. 5, 14. Ebr. 10, 24.

§. 2. Vèr egum varast ad kefja nidur lyst náúnga vors til þess, sem gott er, þess vegna megum vèr ei gèfa honum hneixli med syndsamlegum ordum edur ógudlegu framferdi, ecki heldur koma honum til þess sem illt er, annadhvørt med hótunum, til-lockunum, edur med raungum fortølum.

Lúc. 17, 1. 2. Jesús sagdi vid sína lærisveina: ómøgulegt er ad hneixlanir komi ecki, en vei þeim manni frá hvørjum þær koma! þarfara væri þeim ad mylnu steinn hengdist um háls honum, og honum væri søckt í sjáfar-djúp, enn ad hann hneixli einn af þessum smælingum.

2 Tím. 3, 13. Vondar manneskjur og svikarar vestna meir og meir; þeir svikja og verda sviknir.

§. 3. a) Vér egum ecki ad láta egna oss til heiptar-reidi móti vorum náúnga, eda fá hatur til hans, og leitast vid ad hefna vor, þegar hann misbrýtur vid oss, svo vér gjorum honum ecki hjarta-sorg, til qvalar á sálu edur líkama.

Eph. 4, 26. 27. 21. Ef þér reidist, þá syndgid ecki, látid ecki sólina undirgánga yfir ydar reidi. Gefid ecki tækifæri þeim, sem ber róg. Øll beiskyrdi, heipt, reidi, hávadi og íllyrdi, séu lángt frá ydur, ásamt med allslags íllmennsku.

1 Jóh. 3, 15. Hvørr, sem hatar bródur sinn, sá er mordíngi, og þér vitid ad enginn mordíngi hefir eilíft líf. Jac. 1, 19. 20.

b) Þad

*b*) Pad er kristileg skylda, ad vèr med hógværd umberum breiskleika vors náúnga, þegar hann hefir gjørt ofs nockud á móti, og ad vèr fyrirgèfum honum, eins og Gud fyrirgèfur sjálfum ofs vegna Krists. Auk þessa, egum vèr svo mikid, sem ofs er møgulegt, med vinsamlegum fortølum ad koma honum til ad sjá ad sèr, svo hann vari sig vid ad halda áfram í syndunum.

Marc. 11. 25. 26. Jesús sagdi: fyrirgèfid, ef þèr hafid nockud á móti einhvørjum, svo ad ydar fadir, sem er á himnum fyrirgèfi ydur líka ydar brot. En ef þèr fyrirgèfid ecki, þá mun ydar fadir, sem er á himnum, ecki heldur fyrirgèfa ydar afbrot.

Cól. 3, 12. 13. Svo skrydist nú, sem Guds útvaldir, heilagir og elskanleg-ir, hjartfólginni miskunsemi gódvilja, audmykt, hóglyndi, lánglundargèdi, umlídid hvørr annann, og ef nockurr hefir kløgu-mál mót ødrum þá fyrirgèfid þad hvørr ødrum innbyrdis, eins og Kristur hefir fyrirgèfid ydur, svo gjørid þèr og einnig.

§. 4. a) Vèr egum hvørki ad hata jafnvel vora óvini, sem annadhvort heimuglega edur opinberlega vilja gjora ofs skada, nè í nockurn máta sjálfir hefna vor á þeim, svo vèr ecki gèfum þeim efni til stærri vondsku, eda sèum orsök í þeirra sálar tøpun.

Róm. 12, 14. 17. 19. Blessid þá, sem ofsækja ydur, blessid en bølvid ecki — gjaldid engu íllt fyrir íllt — ef møgulegt er, þá hafid frid vid alla menn, svo mikid, sem í ydar valdi stendur. Hefnid ydar ecki sjálfir.

b) Þegar óvinir vorir sækjast eptir ad skada vort líf, spilla vorri velferd, eda gjora ofs vidskila vid vort góda mannord, megum vèr verja ofs móti þeim med almennilegum rèttargángi, en vera samt ætíd reidubúnir, ad sættast vid þá, bidja fyrir þeim, og hjálpa þeim eptir megni, ef þeir þess vidþurfa, eins og Gud hefir audsýnt ofs miskunsemi Krists vegna, og fyrir hans sakir vill fyrirgèfa sjálfum ofs.

Matth. 5, 25. 44. Jesús sagdi: vertú strax viljugur til ad sætta þig vid þinn mótstødu mann, medan þú ert enn á vegi

vegi med honum. — Eg segi ydur: elskid óvini ydar, blessid þá, sem ydur bølva, gjørid þeim gott, sem ydur hata, og bidjid fyrir þeim, sem ydur gjøra skada, og offækja ydur, svo ad þér séud børn fødurs ydar, sem er á himnum. v. 45 • 48. Róm. 13, 3. 4. Róm. 12, 20. 21. Ef óvin þinn húngrar, þá gef honum ad eta; ef hann þyrstir, þá gef honum ad drecka — lát ecki hid vonda yfirbuga þig, en yfirvinn hid vonda med gódu. Róm. 5, 8. 10.

§. 5. a) Vér høfum engann rétt til ad fyrirdæma nockra manneskju, þó hún hafi rángrar meiníngar, edur vegna þess hún er ecki sømu trúarbragda, sem vér, heldur egum vér eins og sannkristnir ad fela vora frávilltu brædur Guds miskun á hendur, og gledjast af þeirri von, ad þeir muni verda hluttakandi í Krists endurlausn, þegar þeir hafa vandad sitt framferdi eptir þeirri þeckingu, sem þeir hafa haft færi á ad odlast.

Post. g. b. 10, 34 35. Eg reyni sannleika ad Gud fer ecki i manngreinar álit, heldur er hvørr sá, sem óttast

 hann

hann og gjörir hvad rètt er, honum þócknanlegur, af hvada þjód, sem hann er. Róm. 14, 4. 10. 13.

*b*) Vèr megum öldúngis enga grunsemd fá ad þeir hafi drýgt nockurn sèrdeilis glæp, sem ratad hafa í eymd og volædi, því Gud úthlutar eptir sinni alvísu rádstöfun sorg og gledi, hvörjum sem hann vill, ecki til ad straffa þá, heldur ödrum til vidvörunar.

Lúc. 13, 2. 3. Jesús sagdi: meinid þèr, ad þessir Galilískir, hvörra blódi Pilatus hafdi úthellt, hafi verid syndugri enn allir adrir Galilískir, þó þeir hafi ordid fyrir þessu? nei! segi eg ydur: heldur ef þèr takid ecki sinna skipti munud þèr allir eins fyrirfarast. Jóh. 9, 1-3.

## *II.* Umhyggja fyrir líkama Náúngans.

§. 1. Vèr megum ecki leggja hendur á vorn náúnga, hvorki til ad firra hann lífi, nè gjöra heilsu hans og limum skada, því þar af rænum vèr frá honum því stærsta góda, sem Gud hefir géfid honum í þessu lífi, og sú órèttvísi er svo vidurstyggileg í Guds augliti, ad hann

hann líka vill hún verdi ſtraffud hér í heimi eptir Yfirvaldſins tilhlutun.

2 Mós. b. 20, 13. Þú átt ecki ad ſlá manneſkju í hel. Gal. 5, 20. 21.

1 Mós. b. 9. 6. Hvørr, ſem úthellir blódi nockurrar manneſkju, hans blód ſkal af ødrum manni úthellt verda; því Gud gjørdi manninn eptir ſinni mind. Róm. 13, 3. 4.

§. 2. Vér megum ei uppáleggja vorum náúnga meira erfidi enn hann gétur afkaſtad ſvo vér ei veikum hans krapta, ecki heldur megum vér gjøra honum hjarta-ſorg, af hvørri líſi hans eda heilbrygdi kynni verda hætt.

Tit. 3, 2. Minntú þá á, ad þeir ecki laſtyrdi neinn, ſéu ecki þrætugjarnir, heldur eptirlátir, og audſýni allslags hógværd vid hvørn mann.

§. 3. Vér egum ad vara náúngann vid því, ſem honum er ſkadvænlegt, og ráda honum til þeſs, ſem honum er hollaſt, ſvo hann ecki med óframſýni ſtytti líf ſitt, þaradauki egum vér ad hjálpa honum eptir efnum, og enganveginn ſynja honum um vora lidveitſlu, þegar naudſyn krefur.

Phil. 2, 4. Sérhvørr ydar gæti, ecki einúngis, ad sínu gagni, heldur og líka annara. Ordsqv. b. 12. 15.

Merk: Vor skylda í tilliti til náúngans lífs og líkama, er í stuttu máli framsett í fimta bodordid Frædanna.

## III. Umhyggja fyrir tímanlegri Velferd Náúngans.

§. 1. a) Vér megum ecki med neinu gefa tilefni til, ad náúngi vor missi nockud af sínu gótsi edur fjármunum, sem eru hans egin og Gud hefir honum gefid til ad efla med hans velferd, heldur egum vér ad bera umhyggju fyrir, ad hann hafi sitt allt óskaddad.

2 Mós. b. 20, 17. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad girnast hús náúnga þíns.

b) Enginn má stela frá sínum náúnga, edur leynilega gjora hann vidskila vid neitt af því, sem hann á, móti vilja hans og vitund.

2 Mós. b. 20, 15. Drottinn sagdi: Þú átt ecki ad stela!

c) Enginn má ræna edur taka med ofriki frá sínum náúnga þad, sem honum tilheyrir.

1 Cor.

1 Cor. 6. 10. Þjófar og ræníngjar skulu ecki sá Guds ríki.

*d*) Enginn má svikja sinn náúnga edur draga undir sig nockud af því, sem honum tilheyrir, med undirhyggju og vélum, svo sem med rángri vigt eda mælir, óhýtum varníngi, okri, edur ødrum slíkum svikum og prettvísi.

1 Thess. 4, 6. Enginn sviki edur áseliſt sinn bródur í vidskiptum, því Drottinn er sá, sem hefnir alls þvílíks, Ordsqv. 11, 1.

*e*) Enginn má locka fólk eda fé med bleyfilegum hætti frá sínum náúnga, honum til skada, hvørki med hótunum né velum.

2 Mós. b. 20, 17. Drottinn sagdi: þú átt ecki ad girnaſt þins náúnga ektaqvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónuſtu qvinnu, ellegar hans uxa, ellegar aſna, ellegar nockud, sem heyrir þínum náúnga til.

§. 2. *a*) Vér eigum ad láta náúnga vorn njóta réttar í øllum hlutum, og engannveginn gjøra honum órétt, hvørt sem hann er ríkur eda fátækur, ædri edur lægri stéttar, þared bædi Guds ord og skynsemi vor banna oss ad gjøra.

þad ödrum, sem vèr ecki viljum þeir gjöri oss.

Matth. 5, 20. Jesús sagdi: nema ydar rèttlæti taki mikid fram skriptlærdra og Pharisæanna, þá kunnid þèr enganveginn ad koma inní himnaríki. Matth. 7, 12. Esa. 1, 17.

*b*) Hvørr, sem á yfir ødrum ad segja, má ecki vanbrúka makt sína, til ad undirþryckja edur skada þá, miklu heldur á hann ad brúka hana þeim til hjálpar og adstodar.

Ordsqv. 6, 14, 31. Hvørr, sem nidurþryckir litilmagnanum, sá smánar þann, sem skapadi hann, en sá heidrar Skaparann, sem miskunar sig yfir fátækaun.

*c*) Vèr megum engannveginn innihalda þeirra tilhlýdilegu launum, sem er fida fyrir oss, heldur egum vèr ad gèfa þeim í rèttann tíma þad, sem þeim tilheyrir.

Jac. 5, 4. Sjáid laun verkamannanna, og þeirra, sem ydar akur lønd hafa úppyrkt, sem verid hafa af ydur innihaldin, hrópa, og sláttumannanna mikla qvein, er komid til Drottins Zebaoths eyrna.

*d*)

d) Vér egum ad bæta vorum náúnga ad fullu, ef vér uppá nockurn máta hofum áſælſt hann, edur gjört honum ſkada.

1 Sam. 12, 3. Spámadurinn Samúel géck fram fyrir fólkid og ſagdi: hér em eg, ſvarid nú á móti mér fyrir Drottni, og hans ſmurda: hefi eg tekid frá nockrum manni hans uxa edur aſna? hefi eg ſynt nockrum manni ofriki eda órétt? edur hefi eg þegid mútu, og látid þannig blinda mín augu? ſé ſvo, ſkal eg ſkila því aptur. Lúc. 19, 8. Ezech. 33. 15.

e) Vér egum ecki ad misunna náúnga vorum þeirra gæda, ſem Guds forſjón hefir látid honum hlotnaſt, heldur gledjaſt af hans velgengni.

Jac. 3, 16. Hvar, ſem øfund og deilur eru, þar er vanſkickan, og øll ill vidſkipti.

f) Vér megum ecki ljúga ad vorum náúnga, edur innbirla honum óſann ûdi, af hvorjum annadhvort hann ſjálfur edur adrir kynnu ad komaſt í hmiſleg vandrædi.

Eph. 4. 25. Afleggid lygar, en talid ſannindi hvørt vid ſinn náúnga, því vér erum hvørr annars limur.

§. 3.

§. 3. *a*) Vér megum engannveginn skérda æru náúnga vors, heldur þar-ámóti, ad því leiti, sem í voru valdi stendur, med öllum leyfilegum hætti leitast vid ad hann nái allri þeirri virdingu, sem hann á skilid, því gott mannord og rykti eru stór gædi í þessu lífi og öldúngis ómissandi, ef oss á vel ad gánga í voru embætti, stétt, og ödru því oss vidkémur.

Róm. 13,7. Svo gefid nú öllum hvad þér erud þeim skyldugir. — Þeim heidur, sem heidur heyrir. 1 Pét. 2, 17.

*b*) Vér megum ecki baktala edur ljósta óhródri upp um vorn náúnga, og þar med skérda hans virdingu.

Jac. 4, 11. Hallmælid ecki hvörr ödrum, brædur mínir! því hvörr, sem hallmælir bródur sínum, og álasar honum, sá hallmælir lögmálinu og álasar því.

*c*) Vér megum ecki dæma illa um náúnga vorn, medan hann ecki lætur sitt vonda hjartalag í ljósi med opinberum illverkum.

Matth. 7, 1-3. Jesús sagdi: dæmid ecki hardt, svo þér verdid ecki hardt dæmd-

dæmdir; því med þeim sama dómi, sem þér adra dæmid; munud þér sjálfir dæmdir verda; og med þeim sama mælir, sem þér mælid út skal ydur inn aptur mælt verda. En því sjer þú flísina, sem er í þíns bródurs auga, en ad vaglinu, sem er á sjálfs þíns auga, gætir þú ecki?

d) Vér egum ecki ad sýna náúnga vorum forakt, hvorki í ordum né med vidmóti, hvorsu lítilmótlegur, sem hann er, edur audvirdilegur.

Matth. 18, 10. Jesús sagdi: sjáid til, ad þér ecki forsmáid neinn af þessum smælingum. Ordsqv. b. 14, 21.

e) Vér egum ecki ad bera út bresti vors náúnga, heldur miklu fremur þegja yfir þeim, og heldur afsaka enn ásella hann, þegar hann er lastadur af odrum.

1 Pét. 4, 8. Umfram alla hluti, hafid stødugann kjærleika innbyrdis, því kjærleikurinn hylur margar syndir. Ordsqv. b. 10, 12.

§. 4. a) Þegar náúngi vor er naudstaddur, egum vér ad láta oss vera annt um, ad hjálpa honum, og gjora allt, sem oss er mogulegt til ad gjora

hans

hans mædu léttari, og koma í veg fyrir hans eydíleggíngu, Þared oss má til hugar koma, ad enginn veit nema sama neyd kynni oss líka ad höndum bera, og vér þá gjarnan vildum, ad adrir hjálpudu oss.

Ebr. 13, 16. Gleymid ecki ad gjøra gott og útbýta, því þær fórnir þóknast Gudi vel.

*b*) Sérhvørr kristinn er, eptir Kristsdæmi, og hans vegna, skuldbundinn ad hjálpa þeim, sem eru sannarlega naudlidandi, og annadhvört vegna heilsubrests edur elli ecki géta sjálfir leitad sér atvinnu, eda þeim, sem med allri sinni atorku ecki géta unnid nægilega fyrir sér og sínum, eda þeim, sem á ómaga aldri eru munadarlausir.

Matth. 25, 35 - 40. A dóms-degi mun Jesús opinberlega segja þeim gudhræddu til hróss og upplífgunar: húngradur var eg, og þér gáfud mér ad eta. Þyrstur var eg, og þér gáfud mér ad drecka. Géstur var eg, og þér hýstud mig. Nakinn var eg, og þér klæddud mig. Sjúkur var eg, og þér vitjudud mín. J fángelsi var eg, og þér komud til mín. Þad, sem þér gjørdud einum af

þess-

þessum mínum minnstu brædrum, þad gjördud þér mér. Esa. 58, 7. Ordsq. b. 19, 17. Róm. 12, 13. 15.

c) Ydjulausir húsgángs menn og betlarar, sem hafa krapta til ad leita sér atvinnu, med leyfilegum hætti, en nenna því ecki, ega ecki ad fá ölmusu, heldur á ad þrýsta þeim til almennilegrar vinnu.

2 Thess. 3, 10. 12. Vér sögdum ydur svo fyrir, ad sá, sem ecki vill vinna, ætti ecki heldur mat ad fá. En vér höfum frétt, ad sumir lifa í óskicki hjá ydur, sem eckért vinna, en gjöra óþarfa. J Drottins vors Jesú Krists stad skipum vér slíkum og áminnum þá, ad þeir séu kyrrir vid vinnu sína, og hafi sjálfir fyrir sér.

d) Vér egum án yfirdrepskapar ad sambhriggjast med vorum náúnga, hugghreysta og uppörfa hann og lidsinna honum med allri þénustusemi.

1 Thess. 5, 14. Huggid ístödulitla, adstodid veika og umlídid hvörr annan. Róm 12, 15.

e) Ef vor náúngi verdur sundurþyckur vid adra, egum vér leggja allt kapp á ad sætta þá, koma forlíkun á,

og

og þannig afstýra þeim skada, sem annars hefdi máské þaraf hlotist.

Matth. 5, 9. Jesús sagdi: sælir eru þeir, sem fridinn semja, því þeir munu Guds børn kalladir verda. Ordsqv. b. 12, 10.

Merk: Vor skylda í tilliti til góds mannords og fjármuna vors náúnga, er í stuttu máli framsett í sjøunda, áttunda, níunda og tiunda bodordum frædanna.

## D.

### Um Skylduna í sérhvørri stétt.

Auk þeirrar almennilegu skyldu, sem á manneskjunum liggur ad því leiti, sem þær eru manneskjur, er og svo til fleiri slags sérdeilisleg skylda, sem þeim uppáleggst, hvorri útaf fyrir sig, eptir því kalli og embætti, sem Gud hefir þær í sett.

1 Pét. 4, 11. Ef nockurr hefir embætti sá þjóni eptir þeirri orku, sem Gud géfur honum, svo ad í øllum hlutum verdi Gud dýrkadur fyrir Jesúm Kristum.

### I. Ekta-madur og Ekta-qvinnu.

§. 1. Eptir Guds bodi á einn madur ad lifa í hjónabandi med einni ekta-qvinnu,

qvinnu, og ega þau ad hafa hreinan kiærleika hvørt til annars, vera jafnan umhyggju hvørt fyrir annars tímanlegri og eilífri velferd, bidja hvørt fyrir ødru og lifa í ævarandi einíngu þángad til daudinn adskilur þau.

Matth. 19. 4-6. Jesús sagdi: hafid þér ecki lesid, ad sá, sem í upphafi skapadi manneskjuna, hann skóp einn mann og eina konu; og hann sagdi: fyrir því skal madurinn yfirgéfa fødur og módur, en vera hjá egin-konu sinni, og þau tvø skulu verda eins og ad einni manneskju — Hvad Gud héfir samtengt þad má manneskjan ecki sundurskilja.

§. 2. Madurinn á einkanlega ad elska sína ekta-qvinnu eins og sjálfann sig, virda hana, vera henni trúr, sjá fyrir hennar atvinnu, ráda henni heillt, og umbera hennar bresti med kiærleika.

Eph. 5 28 Mennirnir eru skyldugir ad elska þeirra egin konur, eins og sinn egin líkama; hvør,sem elskar sína egin-qvinnu hann elskar sjálfann sig.

1 Pét. 3, 7. Þér, ekta menn! búid vid ydar egin-qvinnur med skynsemi, eins og

og þær, sem eru bre fkari konur, og audsýnid þeim virdingu, svo sem þeim, sem líka eru sam-erfingjar þeirrar nádar ad fá (eilífa) farsæld.

Ebr. 13, 4. Hjúskapurinn á heidurlegur haldinn vera hjá øllum, og hjónasænginn óflekkud, en frillulífis- og hórunar-menn mun Gud straffa.

§. 3. Konan á sérilagi ad elska sinn ektamann, med innilegri velvild, vera honum trú og hlýdin af kjærleika, stjórna innan húss med kostgæfni og forsjálni, og auk þess vera honum rádholl, og þénustuviljug.

Eph. 5. 22. 23. Þér, konur! verid ydar egin mønnum undirgéfnar, eins og Drottni, því madurinn er qvinnunnar høfud eins og Kristur er safnadarins høfud.

Tit. 2, 4. 5. Postulinn Páll vill láta kenna úngum konum ad elska þeirra ektamenn og børn, og ad þær séu skírlífar, sidsamar, umsjónarsamar, gódlyndar og bændum sínum undirgéfnar, svo ad Guds ord ecki verdi fyrir lasti.

II.

## II. Foreldrar og Börn.

§. 1. *a*) Foreldrarnir eiga ad uppala sín børn til gudhrædslu, svo þau læri frá barnæsku ad þeckja, elska og hedra Gud, líka ad varast syndir og lesti, því þeir eru Gudi andstyggilegir, en stunda eptir dygdum og mannkostum, því þeir þócknast Gudi; svo ega børnin og venjast til ad setja sína von og traust einasta til Guds nádar og miskunsemi vegna Jesú Krists.

Eph. 6, 4. Þér, fedur! ertid ecki ydar børn til reidi, heldur alid þau upp med aga og umvendun til Drottins.

*b*) Líka heyrir þad til góds uppfóstursins, ad børnin venjist til ydnis, sparsemis, þrifnadar, audveipnis, og til ad fylgja sannleikanum, án yfirhylmíngar. Foreldrarnir eiga einnig ad gánga undan þeim med gódum eptirdæmum, og láta aldrei hjálída naudsynlega hirtíngu, þegar þau ecki vilja hlýda áminníngum.

Ordsqv. b. 13, 24. Hvørr, sem hefir ást á barni sínu, agar þad snemma. 1 Sam. 3, 10-15, 4, 12-22.

§. 2. Børnin ega ad heidra foreldra sína, og hlýda þeim í øllu gódu, elska,

þacka,

þacka og þjóna þeim, og vera þeim til gledi med góðu og ſidſamlegu framferdi. 2 Mós. b. 20, 12. Drottinn ſagdi, heidra fødur þinn og módur þína, ſvo þú lifir lengi í landinu.

Eph. 6, 1. 3. Þér børn, verid hlýdin ydar foreldrum Drottins vegna, því þetta er rétt; heidra fødur og módur þad er hid fyrſta bodord, ſem fyrirheiti er lagt vid; ſvo þér vegni vel, og þú megir lifa í landinu. 2 Sam. 18, 6. 18. Ordsqv. b. 23, 22. 25.

*III.* Húſsbændur og Þjónuſtufólk

§. 1. a) Húſsbændur og matmædur eiga ad bera umhyggju fyrir velferd ſíns þjónuſtu fólks, og hellſt med góðu halda því til ad vera audſveipid, ſem og ydid og reglufaſt í því, ſem þad á ad gjøra. Þau ſkulu einnig géfa þeim tilhlýdileg fot, fædu og laun, og ecki gleyma ad ala onn fyrir þeirra uppfrædíngu og betrun til ſáluhjálpar, og likt. veita þeim hjúkrun, einkum þá þau eru veik eda gømul.

Col. 4, 1. Þér húſsbændur! audſýnid ydar þénurum hvad rétt og jøfnudur

